GUNNAR DAL:

Vera, ljóð, 1949
Sfinxinn og hamingjan, ljóð, 1953
Rödd Indlands, 1953
Þeir spáðu í stjörnurnar, 1954
Sfinxinn og hamingjan, 2. útg., 1954
Sókrates, 1957
Spámaðurinn (þýdd ljóð), 1958
Októberljóð, 1959

Saga heimspekinnar:

Leitin að aditi, 1961
Tveir heimar, 1961
Líf og dauði, 1961
Hinn hvíti lótus, 1962
Yoga, 1962
Sex indversk heimspekikerfi, 1962
Grískir heimspekingar, 1963
Öld Sókratesar, 1963

## *Borg Sókratesar*

— Hvar eru kynslóðir þínar, Aþena? — Hvar eru auðmennirnir, sem lítilsvirtu anda þinn, heimspekinga þína, skáldin og listamennina? Hvar eru nú hin forna hirð þín, Mammon konungur? — Hún er gleymd, eins og þeir munu gleymast, sem í dag selja tunglskinið á Akrópólis!

— Og þótt við lifum á öld auðhyggjunnar, og þó að þetta sé enn sem fyrr þitt ríki, Mammon konungur, þá vittu, að þínir hirðmenn hafa aldrei gefið heiminum þá hluti, sem hvorki mölur né ryð fá eytt og menn minnast vegna þess, að þeir hafa orðið veröldinni til þroska og blessunar. Og hversu fjölmenn og háværsem hirð þín var og er, þá er það þó andinn

einn, sem lifir, — andinn og þær hugsjónir og sú list, sem hann skapar.

Þess vegna rís Akrópólis enn í dag með rústir hinnar fornu menningar í ójarðneskri fegurð yfir múgborg fátæktar, auðhyggju og hégóma, jafnhátt hinni kristnu kirkju á fjallinu Lykabettos. — Og þess vegna minnist heimurinn enn í dag hins berfætta heimspekings, þó að flest annað hafi fallið fyrir sigð tímans. Hans vegna ekki sízt reyna fræðimennirnir að lyfta örlítið tjöldum gleymskunnar og skyggnast inn í þá Aþenu, sem ól hann og fóstraði fyrir meir en tvö þúsund og fjögur hundruð árum.

Á tíð Sókratesar var klettahæðin Akrópólis háborg Aþenu. Þá eins og nú hefur útsýni þaðan verið eitt hið fegursta í heimi. Í austri blasa við gulbrúnar hlíðar Hymettos, í suðaustri Ilisos, í norðri Pódonifti og í vestri Kifisos. Frá Akrópólis sjást þó enn betur hinar frægu klettahæðir borgarinnar: Ardettos, Lykabettos, Nymfhæð, Pnyx, Areopagos og Mouseion.

Venjulega liggur þó móða yfir þessum fornhelgu stöðum, sem takmarkar sjónir manna við þröngan hring þeirra hluta, sem næstir

liggja. Þessa jarðnesku móðu og mistur kölluðu grísku fornskáldin aër. — En þegar regnið eða norðanvindurinn hrekur hitamóðuna af hæðum Aþenu, rísa þær á ný í tærleika og birtu þeirrar heiðríkju, sem skáldin nefndu eter. — Þau sögðu, að í þessum eter byggju hinir eilífu guðir í ríki heiðríkjunnar og ljóssins. — Og í eternum mundi sálin lifa, þegar hún losnaði úr fjötrum sínum og yrði frjáls, og þar mundi hún verða skyggn og sjá alla hluti í tærleika og birtu, maðurinn mundi öðlast hinar æðri sjónir andans. Aër, hið þunga jarðneska loft myrkvaði augað og gerði manninn skammsýnan og mannlega vitsmuni takmarkaða. Um þetta kváðu skáldin og kölluðu veröld mannsins þokuheim, sem blindaði hin dauðlegu augu hans.

Eitthvað á þessa leið hafa ýmsir fræðimenn útskýrt, hvernig hið gríska loftslag hefur mótað gríska lífsskoðun. Sumir fullyrða jafnvel, að þannig hafi loftslagið skapað hugmyndir. Þeir benda á, að grísk hugsun einkennist af skáldlegu hugarflugi annars vegar og viðleitni til að finna öllu sín réttu takmörk hins vegar. En þetta tvennt, segja þeir, svarar nákvæmlega til þeirra eiginleika hins gríska loftslags,

sem rætt hefur verið um hér að framan. Við, sem ekki þorum að fullyrða neitt um uppruna hugmynda, hljótum þó að trúa því með fyrirvara, að hugmyndirnar um hið jarðneska og hið himneska, um þröngsýni jarðbundinna vitsmuna og víðsýni hinnar andlegu sjónar hafi orðið til eingöngu vegna hins gríska loftslags. Andlegt flug og heimspekileg þörf manna til að takmarka alla hluti eru einkenni mannlegrar hugsunar yfirleitt, ekki aðeins grískrar, og skáldskapur og heimspeki eiga sér væntanlega aðrar og dýpri rætur en veðurfar. — Þannig getur loftslag eflaust mótað hugmyndir og gefið þeim ákveðinn svip, þó að óvarlegt sé á hinn bóginn að fullyrða, að það sé hin dýpsta orsök þeirra og hafi skapað þær.

Þannig var hinn gríski himinn, sem hvelfdist yfir höfði Sókratesar, ýmist bjartur og tær eða móða og mistur. Í mannfólkinu á Agóru, stórtorginu í Aþenu, sá Sókrates þó jafnan hið síðar nefnda. Þess vegna varði hann ævi sinni til að ákalla regnið og norðanvindinn um að hrekja burt þá þoku, sem lá yfir hugsun manna, svo að þeir í tærleika og birtu gætu séð hina háu sýn hins sanna, góða og rétta.

## II

Síðasti réttur Sókratesar sem borgara Aþenu var að bera fram tillögu um, hvað hann sjálfur teldi hæfilega refsingu fyrir afbrot sín við guð og menn. Sókrates stóð þá dauðadæmdur maður frammi fyrir dómurum sínum. Hann játaði sig ekki sekan, bað sér engra griða, en til að storka dómurum sínum stakk hann upp á því, að sér yrðu veitt þau veraldargæði, sem Sókrates þekkti bezt: gistingu á Prytaneion til dauðadags. — Og auðvitað stóð Prytaneion við Agóru, stórtorgið í Aþenu.

Til þessa torgs lágu allar leiðir hins gríska heims, og þaðan (frá altari hinna tólf guða) voru allar vegalengdir í Attiku mældar. — Leirkerasmiðirnir reistu hér fyrstir híbýli sín fyrir norðan og neðan háborgina. Í kjölfar þeirra sigldu, er tímar liðu, aðrir iðnaðarmenn, og kaupmenn fluttust þangað með varning sinn. Loks risu við torgið bústaðir höfðingja og guða, sem höfðu haft aðsetur við gamla torgið vestan við Akrópólis, milli Areopagos, Pnyx og Mouseion. Sjálft torgið (Agóra) var fyrst 200x150 m autt svæði, en á tíð Sókratesar reis þar fjöldi minnismerkja, einkum til að minnast hreysti Grikkja í stríðinu við Persa,

og við hlið þeirra líkneski af hetjum og hálfguðum. Ungur að árum sá Sókrates þar gosbrunna gerða og pílvið og espitré gróðursett. Á torginu sjálfu reis einnig fjöldi verzlana og jafnvel musteri. Sama árið og Sókrates fæddist (470) var hið hringmyndaða ráðhús borgarinnar, Tholos, reist þar við suðvesturhorn torgsins. Sá staður var aðeins ætlaður æðstu mönnum ríkisins, og þar voru þeir, sem unnið höfðu fræg afrek, heiðraðir. Þetta var sá staður, sem Sókrates í gamansemi sinni mæltist til við dómara sína að fá að gista til dauðadags. Og þó að undarlegt megi virðast, hafði Sókrates um eitt skeið ævinnar búið á þessum stað. Ekki hlotnaðist honum sá frami vegna heimspeki sinnar. En vegna óvenjulega lýðræðislegra stjórnarhátta hlaut Sókrates, sem þó skipti sér lítt af stjórnmálum, að verða prytan, eða ráðherra: — Á þingi Aþenu þeirra tíma voru 500 þingmenn, 50 frá hverri sýslu (phyle). Hinir 50 þingmenn hverrar sýslu (sem valdir voru með hlutkesti) urðu tíunda hluta ársins „ráðherrar" þings. Ráðherrarnir skiptust aftur á um forsætið. Þannig vildi það til, þegar mál flotaforingjanna var tekið fyrir, eftir orrustu gríska flotans við Arginusai 406 f. K.,

að Skórates var „forsætisráðherra“ og um leið „þingforseti“. Ráðherrarnir bjuggu í ráðhúsinu, Tholos, og snæddu þar ríkmannlega á kostnað borgarinnar. Margir sváfu þar einnig um nætur, — á gólfinu innan við hinar sex marmarasúlur staðarins. Til að greina milli valdhafa og alþýðu torgsins var um sama leyti og Tholos var reist komið fyrir merkjasteini austan við bryggjuna. Bar hann áletrunina: „Ég er merkjasteinn Agóru“.

Við hlið Tholos að norðvestan stóð þinghúsið eða Bouleuterion. Það var reist skömmu fyrir dauða Sókratesar. Þar sat þá þingheimur (hinir 500) á rökstólum, — gerðum úr bláum marmara ofan frá Hymettos. Gamla þinghúsið, sem Sókrates þekkti bezt, og Klisþenes lét reisa nokkru fyrir hans dag, var þá notað sem skjalasafn ríkisins. Á rústum þess reis síðan musteri „móður guðanna“, — Metroon. Stóð það framan við nýja þinghúsið.

Þetta voru helztu byggingar í suðvesturhorni torgsins, en þar voru tíð fundarhöld um stjórnmál, og þar voru sakamenn og heimspekingar dæmdir í útlegð með skeljadómi.

Þegar Sókrates var á fertugsaldri, lét Perikles reisa musteri smíðagyðjunnar, Hephaisteion

(Þeseion) á hæðinni fyrir norðvestan þessar byggingar, en þaðan er útsýni fegurst næst eftir Akrópólis. Annað musteri, sem reist var á Agóru (inni á torginu norðanverðu), var Aresarmusterið. Svipar því mjög til hins fyrrnefnda og er sennilega byggt af sama meistara.

Þegar Sókrates var um tvítugt, reis hin fræga bygging Stóa Poikile við torgið að norðanverðu. Sú bygging var gerð skáldunum og mjög til hennar vandað, m. a. skreytt myndum eftir tvo meistara þeirra tíma, Polygnotos og Micon. Síðar varð þessi staður heimspekiskóli Zenós frá Kypros og heimspeki hans kennd við þessa „stóu" og kölluð stóu-heimspeki, (stóa = súlnagöng). Þaulsætni sumra manna við þessar súlur nefndist „hin stóiska ró".

Nafni heimspekingsins, Zenó frá Elea, kom til Agóru, þegar Sókrates var mjög ungur að árum, ef trúa má Plató. Hann var þá í fylgd með meistara sínum, öldunginum Parmenidesi. Báðir höfðu mikil áhrif á Sókrates og gríska heimspeki. Parmenides og Zenó frá Elea voru þó engan veginn einu heimspekingarnir, sem Sókrates ræddi við á Agóru. Í raun og veru varð þetta torg á dögum Sókratesar vettvang-

ur heimspekinnar og um leið háborg heimsmenningarinnar. Grískir heimspekingar á 5. öld urðu að koma til Agóru til að reyna gildi kenninga sinna og kynnast skoðunum og verkum annarra meistara. Þannig gat Sókrates á þessu torgi kynnzt allri þeirri heimspeki, sem uppi var í heiminum á hans tíð, stundum beint frá stórmeisturunum sjálfum, annars að þeim fjarverandi frá hinum mikilhæfustu lærisveinum og arftökum þeirra. Allra leið lá til Agóru. Sókrates var fæddur í Aþenu og hafði vaxið upp með stórtorginu. Þess vegna hafði hann hina beztu aðstöðu, sem á varð kosið, til að safna saman heimspeki gullaldarinnar grísku og tileinka sér hana, vaxa með henni og verða í hinum gríska heimi fulltrúi 5. aldarinnar fyrir Krists burð í sögu menningarinnar.

Hinn frægi heimspekingur Anaxagóras kom til Aþenu, þegar Perikles var barn að aldri, og er sagður hafa kennt honum mælskulist. Ef trúa má Plató, virðist sem Sókrates hafi verið of ungur til að ræða við Anaxagóras, meðan hann hafðist við í Aþenu. Hins vegar talar Plató um, að Sókrates hafi kynnt sér bók hans vandlega. Anaxagóras var flæmdur í útlegð frá Aþenu vegna skoðana sinna og vin-

áttu við Perikles. Þó að Sókrates hafi því ekki haft persónukynni af Anaxagórasi, kynntist hann þó heimspeki hans mjög vel, vegna þess að aðeins sautján ára að aldri gerðist hann nemandi Archelaos. Archelaos var helzti nemandi Anaxagórasar og eftirmaður, þegar meistarinn varð að flýja Aþenu.

Annar heimspekingur, sem Sókrates fræddist af á Agóru, var Díógenes frá Appolóníu. Hann var fulltrúi gömlu heimspekinganna í Miletos og kom hugmyndum þeirra til Sókratesar. Prótagóras frá Abdera, maður hins nýja tíma, kom til Aþenu um svipað leyti og Parmenides og Zenó. Hann var talinn mestur og gáfaðastur Sófista. Hann vingaðist við Perikles og háði harða orrustu á Agóru við Zenó frá Elea. Ungmennið Sókrates er nálægur og tekur þátt í viðureigninni. Þegar Prótagóras kom til Aþenu nokkrum árum síðar, hefur hann ekki gleymt þessum unglingi og lætur orð um það falla, að af öllum mönnum, sem hann hafi mætt, dái hann Sókrates mest, — og spáir honum mikilli framtíð. Annars urðu Sófistarnir á Agóru höfuðandstæðingar Sókratesar. Fremstir þeirra voru Gorgias, Hippias, Prodíkos og Antifón. Antifón hæddi einkum Sókra-

tes fyrir fátækt og fyrir þá heimsku að taka ekki gjald fyrir fræðslu sína: Sú fræðsla, ályktaði Antifón, sem ekkert gjald er tekið fyrir, er einskis virði!

En Sókrates var ekki einn síns liðs á torginu. Hann neitar því að vísu í varnarræðu sinni, að hann hafi haft lærisveina, mathetes. En félaga, hetairos, eignaðist hann marga um ævina. Meðal þeirra Aþeninga, sem honum voru handgengastir og leituðu með honum þekkingar, nefnir Plató þá Appollódóros, Krító og son hans Krítóboulos, Hermogenes, Epigenes, Aischines, Antisþenes, Ktesippos, Menexenes, Kairefón, og við þennan hóp verður að sjálfsögðu að bæta Plató sjálfum.

Í fylgd með Sókratesi voru á Agóru einnig heimspekingar, sem komnir voru langt að. Þannig var um Pyþagóringana Simmias og Kebes frá Þebu og Echekrates frá Phleious. Mjög sennilegt verður að telja, að arftaki Pyþagórasar, Philolaos, hafi sjálfur komið til Agóru. Sókrates kynntist fræðum Pyþagóringanna svo vel, að eftir að Philolaos fór til Ítalíu, var litið á Sókrates sem yfirhöfuð þeirra Pyþagóringa, sem eftir urðu í Grikklandi. Og m. a. í samræðum þessara manna hefur sú heim-

speki mótazt, sem við þekkjum í ritum Platós um ríki „frummyndanna“. Sumir komu til Agóru aðeins til að sjá og ræða við Sókrates. Þannig var um Terpsion og Eukleides (til hans flúði Plató eftir dauða Sókratesar) frá Megara og Aristippos frá Cyrene.

Af öðrum, sem dáðu Sókrates, en voru ekki í „skóla“ hans, má nefna Alkibiades, Aristeides og Charmides, föðurbróður Platós. — Jafnvel sjálfur Perikles staldraði við á torginu til að hlýða á Sókrates.

Þannig gekk Sókrates og hirð hans um Agóru, torg kaupmennsku, stjórnmála og bænahalda, og leitaði skjóls undan sól og regni undir svalir og súlnagöng hofpresta, dómara og kaupmangara til að ræða við hina frægustu heimspekinga og auðga andann.

Hvað rætt hefur verið undir þessum súlnagöngum Agóru, vitum við ekki — aðeins hvernig þessar samræður endurspegluðust í ritum Platós, Aristótelesar og annarra grískra heimspekinga eftir daga Sókratesar. Aþeningar um miðja 5. öld skrifuðu ekki bækur. Hins vegar mátti fá rit eldri manna, eins og t. d. bók Anaxagórasar, keypt eða lesin upphátt gegn vægu

verði í bókhlöðunni í Orchestra, — sem annars var dans- og söngleikhús torgsins.

Löngu eftir dag Sókratesar hélt Agóra áfram að vera háborg orðsins. Og þegar Páll postuli kom til Aþenu til að boða Grikkjum kristna trú (50—51 e. Kr.), talaði hann daglega á þessu torgi við hvern sem á hann vildi hlýða.

## III

Fyrir brúðkaup sitt voru meyjar Aþenu vanar að ganga austur fyrir borgina og lauga sig þar í hinni helgu lind Kallirrhoe. Hin suðræna náttúra þessa staðar var jafnvel enn fegurri en sagan um paradís. Miðjarðarhafið merlaði í sumarhitanum, og þar sást blána fyrir ströndum Argólis, og úti fyrir þeim lágu eyjarnar eins og demantar í silfurhring. Hér runnu marmarasúlur og goðalíkneski Olympieidons, hinna helgu véa Seifs, saman við fegurð marmarafjallsins Hymettos í austri og tign Akrópólis í vestri.

Í þessari suðrænu paradís hittir Sókrates dag einn vin sinn Phaidros. Þeir taka tal saman: „Það veit Hera, að hér er fagurt,“ segir Sókrates, sezt niður í grasið og laugar fætur sína í

lindinni. Hann heldur lofræðu um fegurð náttúrunnar, um hvað raddir sumarsins láti vel í eyrum, um milda hafrænuna og ferskleika loftsins, svala lindarinnar og mýkt jarðarinnar. Hann talar um hlyninn, sem hann situr undir, um hinar skuggsælu greinar hans og nýútsprungin blóm þeirra, sem fylla loftið angan. „Og eftir fórnunum og líkneskjunum að dæma," segir Sókrates, „hlýtur þessi staður að vera helgaður þokkadísunum og Acheláos" (guði fljótsins). — Phaidros, vinur hans, hlýðir undrandi á þessa ræðu og segir: „Þú ert undarlegur maður, Sókrates, þú talar eins og útlendingur, sem kemur í heimsókn, en ekki eins og heimamaður. — Þú kemur líklega aldrei út fyrir borgarmúrana." — Sókrates andmælir því ekki. „Ég er fílósóf," svarar hann. „Tré og landslag kenna mér ekki neitt, aðeins fólkið inni í borginni."

En þótt Sókrates væri maður torgsins og teldi sig ekki læra neitt af trjám, gekk hann þó oft til skógarins helga, sem nefndur var Akademeia. Þegar hetjum og sigurvegurum Aþenu veittist hinn æðsti frami, voru þeir smurðir olíu hinna tólf helgu olíuviða þessa skógar. Nú á dögum hefur borgin vaxið yfir

þennan skóg, en á tíð Sókratesar lá hann spölkorn norðvestan við Aþenu.

Akademeia var helzti lystigarður Aþeninga. Þar voru skuggsælir lundar og fagurlega gerðir gosbrunnar. Nafn sitt dró þessi staður af grískri hetju eða hálfguði, Akademos (Hekademos), sem annað hvort hefur upphaflega átt þetta land eða staðurinn verið honum helgaður. Æskumenn Aþenu þreyttu hér íþróttir, og hér kenndu Sófistar heldri manna sonum gegn háu gjaldi, hvernig bezt væri að komast áfram í heiminum. — Og undir olíuviði þessa skógar ræddust þeir við, Plató og Sókrates.

Plató átti sjálfur land að þessum skógi, og hér (milli Akademeia að norðvestan og Kolonos) stofnaði hann, er stundir liðu, heimspekiskóla sinn, Akademeia, og helgaði menntagyðjunum. Við hann urðu síðar allir háskólar kenndir, eins og kunnugt er.

Þessir staðir, sem nú hafa verið nefndir, Olympieidon og Akademeia, lágu fyrir austan og norðan borgarmúrana. En fyrir sunnan Agóru, stórtorgið, voru einnig staðir, sem Sókrates hefur án efa oft reikað um. Erfitt hefur a. m. k. verið að komast hjá að berast með straumnum upp á „klettinn“, eins og Aþening-

ar nefndu klettahæðina Pnyx, og hlýða á mestu ræðugarpa Aþenu, þar á meðal Perikles og Aristeides, þruma yfir lýðnum. Ræðupallurinn, sem þeir stóðu á (Bela), var höggvinn í klettinn, og fyrir framan hann á hæðinni að norðvestan, gegnt Akropólis, lá áheyrendasvæðið eins og hringmyndað leiksvið.

Í Aþenu á dögum Sókratesar var það að sjálfsögðu borgaraleg skylda að fylgjast sem gerst með stjórnmálum. En þó að stutt væri frá Agóru upp á Pnyx, reyndist oft furðu erfitt að fá menn til að yfirgefa torgið til þess að hlýða boðskap stjórnmálamannanna.

Til að auka fundarsókn var því gripið til þess ráðs að greiða mönnum fé fyrir að hlýða á hina leiðandi menn. Auk þess voru bogmenn Aþenu gerðir út af örkinni til að smala fólkinu saman. Fóru þeir með reipi vætt rauðri málningu milli sín um Agóru og nálægar götur. Leiðin inn á áheyrendasvæði „klettsins" lá um einstigi, og verðirnir, sem þar stóðu, höfðu augun á komumönnum og gengu úr skugga um, hvort nokkur hefði markazt af reipinu. Þeir, sem báru rauðan lit á skikkju sinni, fengu enga þóknun greidda fyrir að hlýða á ræðumennina. Þegar stórmál voru á

dagskrá, urðu fundarmenn að vera ekki færri en 5 þúsund. Oft var þó fundarsókn treg þrátt fyrir umbun og refsingu hins opinbera.

Næsta leiti var Mouseion, helgidómur menntagyðjanna, sem upphaflega voru fjalla- eða vatnadísir. Aðrir segja, að þessi hæð dragi nafn sitt af því, að hér sé grafið skáldið Mousaíns, lærifaðir Orfeusar. Undir Mouseion-hæðinni að norðaustan höfðu fátæklingar höggvið skúta inn í klettinn og höfðust þar við. Híbýli þessi sjást enn í dag og eru sýnd ferðamönnum og kölluð „fangelsi Sókratesar“. Ekki er það þó sannleikanum samkvæmt. Þetta var aðeins ein af fjölmörgum vistarverum í „hellisbúahverfi“, sem reis hér, þegar Sókrates var á fimmtugsaldri, vegna offjölgunar og húsaskorts í Aþenu í umróti og öryggisleysi Pelópseyjastríðsins. Þetta hellisbúahverfi lá um vesturhlíð Pnyx að Baraþrón-gjánni og um Nymf-hæð og hlíðar Areopagos. Það var hluti af Koile og Milete, en þau ásamt Keramikos voru fátækrahverfi, sem stungu mjög í stúf við höfðingjahverfið austur af Akrópólis.

Hæðirnar, sem risu upp yfir þessar vistarverur manneskjunnar, voru helgaðar gyðjum fegurðar og frjósemi og guðum dómsins og

hefndarinnar. Þannig var Areopagos hæstiréttur glæpamála — og bænastaður morðingja. Hér var leiksvið harmleiks Aeschylos um móðurmorðingjann Orestes og Clytemnestru. Í stað Aresar-musterisins var síðar reist hér kirkja hins fyrsta Aþenings, sem Páll postuli sneri til kristinnar trúar. Það var Senatorinn Dionysos, sem eftir skírn sína nefndist heilagur Denis Areopagit.

Á hæð vatnadísanna, Nymf-hæð, leituðu konur Aþenu á náðir frjósemisgyðjunnar. Þær létu sig falla niður þessa klettahæð að suðaustan. — Allar misfellur þessarar hlíðar eru nú máðar af og sléttar orðnar.

Vestan við Nymf-hæð er litli Pnyx, og til suðurs þaðan, utan við hinn mikla borgarmúr, sem Cimon lét reisa á unglingsárum Sókratesar (461—457 f. K.), var Baraþrón. Einnig hér hefur Sókrates komið og horft niður í gjána á bein þeirra, sem réttvísi Aþenu dæmdi til lífláts. Í fangelsinu spyr Krító Sókrates: „Hvernig á é g að grafa þig?“ Sókrates svarar spurningunni með tómlátri gamansemi. Varð honum þá e. t. v. hugsað til þessa staðar? Um legstað Sókratesar veit enginn, en saga er til um, að hann hafi verið grafinn.

Ofar öllum þessum stöðum reis Akrópólis, háborgin. Oft hefur heimspekingurinn Sókrates gengið á þessum bleika kalksteini og rætt við Filokles, Kallikrates, Mnesikles, Iktinos og Fidias og horft á þessa meistara meitla fegurð mannlífsins og hreystina í hvítan marmara og reyna að flytja leyndardóm, tign og mikilleika himnanna niður til jarðar, hingað til þessa staðar, með því að reisa hér guðunum risastór og fögur musteri.

Vegna eyðingar Persanna 480 f. K. var Akrópólis á sama hátt og Agóra reist úr rústum á tíð Sókratesar. Mörg musteri voru þá reist og endurbyggð, undir yfirstjórn hins alvalda lýðræðisforingja, Periklesar. Tvítugur að aldri hefur Sókrates horft á Fidias vinna að listaverki sínu „Aþena Promachos", gyðjunni, sem gengur fram með alvæpni og berst í eldlínunni.

Hann hefur einnig séð Fidias vinna með Iktinos og Kallikrates að byggingu Parþenons, musteris Aþenu Pólias (447—432). Á austurgaflhlaðinu er mynd Fidiasar af fæðingu Aþenu, þar sem hún stendur í öllum herklæðum við hlið Seifs.

Á sama tíma var byrjað á öðru stórmusteri,

Propylaea (437 f. K.). Var það allt gert úr bláum og hvítum marmara og prýtt höggmyndum af þokkagyðjunum, sem þó eru taldar eldri en musterið og því gerðar fyrir tíð Sókratesar.

Milli Propylaea og Parþenons var altari Aþenu Hygieiu, eða Aþenu gyðju heilbrigðinnar. — Þegar Sókrates var um fertugt, gekk mikil plága yfir Aþenuborg. Þá tóku menn mjög að leita á náðir gyðjunnar Hygieiu og guðsins Asklepeios. Sagan segir, að þessi gyðja hafi eitt sinn birzt Periklesi í draumi og kennt honum aðferð til að lækna verkamann einn, sem fallið hafði og slasazt við byggingu Propylaeu. Í þakklætisskyni fyrir þessa fræðslu gyðjunnar fékk Perikles snillinginn Pyrrhos til að gera af henni líkneski. Gaf Perikles það síðan gyðjunni Hygieiu og lét gera henni helgidóm á þessum stað.

Hið litla, en fagra musteri, Nike, sem helgað var Aþenu Nike, eða Aþenu gyðju sigursins, var reist um svipað leyti og Propylaea undir stjórn Kallikratesar. Musterið er reist fram á klettabrúninni, og sér þaðan yfir næstum allan Saronikuflóann. — Þjóðsagan segir, að á þessum stað hafi Egeus konungur beðið komu sonar síns frá Knossos. — Mínos, hinn voldugi

konungur á Krít, hafði fengið Dedalos, þjóðsmið Aþenu, til að byggja fyrir sig völundarhús með svo mörgum villigöngum, að Mínótárinn, ófreskja, sem var að hálfu naut og hálfu maður, fengi ekki ratað út úr því.

Sonur Mínosar konungs, Andrógeos, fór eitt sinn til Aþenu til þess að þreyta íþróttir við afreksmenn borgarinnar. Fékk hann jafnan sigur yfir heimamönnum í hverri grein. Fylltist þá Egeus, konungur Aþenu, slíkri öfund og reiði, að hann lét ráða gest sinn af dögum.

Þegar Mínos konungur spurði þessi tíðindi, hélt hann óvígum flota til Aþenu til að hefna sonar síns. Brenndi hann borgina og rændi landið. Og loks urðu Aþeningar til að sefa reiði hans að játast undir þá kvöð að blóta honum mönnum. Á hverju ári skyldu sjö fræknustu sveinar og sjö fegurstu meyjar Aþenu send til Krítar og þeim blótað ófreskjunni í völundarhúsinu, Mínótáranum.

Tvívegis var þessi grimma fórn færð. Hið þriðja ár bauðst Þeseifur, sonur Egeusar, að fara þessa ferð og freista að drepa Mínótárann. Bað hann föður sinn að hafa það til marks, að ef skipin sigldu heim undir svörtum seglum, mundi hann dauður.

Þegar hann kom til Knossosborgar, fór í hönd hið árlega nautaat og skylmingar borgarbúa. Lét Mínos konungur fyrst varpa bandingjunum fyrir nautin og berjast við hin óðu dýr. Þeseifur barðist af slíkri hreysti, að hann barg lífi sínu og félaga sinna og vann ástir Ariöðnu, dóttur Mínosar. En ekkert gat mildað skap hins grimma konungs. Hann lét reka Aþeningana inn í völundarhúsið. En áður hafði Ariöðnu tekizt að koma sverði og þráðarhnykli í fangelsið til Þeseifs. Rakti hann ofan af hnyklinum á leið sinni eftir villugöngunum. Réðst nú ófreskjan að bandingjunum með ógurlegum öskrum, en Þeseifur brá sverðinu og hafði sigur. Röktu Aþeningar sig síðan eftir Ariöðnu-þræðinum út úr völundarhúsinu. Kóngsdóttir beið þeirra, og flúðu þau öll til Aþenu. En í gleði sinni gleymdi Þeseifur að draga upp hin hvítu segl. Og er Egeus konungur leit svört segl á skipum sonar síns, steypti hann sér fram af klettahæðinni og beið bana.

En það er af hugvitsmanninum Dedalos að segja, að Mínos konungur lét varpa honum og syni hans, Íkarosi, í fangelsi völundarhússins. Dedalos gerði þá sér og syni sínum vængi, og flugu þeir í loft upp og svifu hátt yfir flota

Mínosar. En eins og allir vita, flaug Íkaros of nálægt sólinni, missti vængi sína og steyptist í hafið. En Dedalos komst til Sikileyjar. En brátt bar flota Mínosar þar að landi, og heimtaði hinn voldugi konungur Dedalos framseldan. Ekki þorði Sikileyjarkóngur annað en lofa því. Var honum þó þvert um geð að framselja hugvitsmanninn og bruggaði Mínosi vélráð. — Lét hann búa Krítarkonungi kerlaug og þrjár dætur sínar þjóna honum í baðinu. — Steyptu kóngsdætur yfir Mínos brennheitu vatni, og varð það hans bani.

Á æskuheimili Sókratesar var ættartala ein mikil, þar sem föðurætt hans var rakin til þjóðsmiðsins Dedalosar! — Má vera, að Sókrates hafi einnig setið á þessari klettabrún og minnzt „forföður“ síns. Ef til vill hefur hann einnig komið í helgidóm hins ógæfusama konungs, Egeusar, sem komið er fyrir undir þessu bergi.

Stærsta og helgasta musteri Akrópólis var þó Erechteum. Það var byggt á árunum 421—406 undir stjórn Filoklesar. Fjórða hvert ár héldu Aþeningar í pílagrímsför frá Dipylon (nálægt Akademeia) gegnum Agóru upp til Erechteum. Þetta var mesta trúarhátíð Forn-

Grikkja og nefndist Panaþenu-hátíðin. Prestar og yfirvöld gengu þar fremstir, en þeim fylgdu ungmenni á hvítum fákum og ungmeyjar, sem höfðu með sér gullna kórónu og nýofna skikkju til að færa gyðjunni Aþenu Pólias. Var líkneski hennar komið fyrir í helgasta sal musterisins við hlið hins helga olíuviðar, sem sagður var hafa fallið af himnum ofan. Lýsti henni gulllampi, og mátti logi hans aldrei slokkna.

Sunnan undir Akrópólis var Dionysosar-leiksviðið. — Þar horfði Sókrates á hverju ári á verk hinna frægustu skálda, Aeschylos, Euripides, Sófóklesar og Aristófanesar. Sókrates átti því jafnvel að venjast, að hans eigin persóna væri tekin þar til meðferðar. Aristófanes, Amipsias og Eupólis sömdu allir gamanleiki um Sókrates. Frægast varð leikrit Aristófanesar, „Skýin“. Ekki verður þó séð, að þetta leikrit hafi spillt vináttu leikritaskáldsins við Sókrates og Plató. Hins vegar vitnuðu ákærendur Sókratesar til þessa leikrits löngu síðar og notuðu það sem eina af forsendum dauðadómsins.

Skammt frá hinu bogmyndaða leiksviði Dionysosar var helgidómur hálfguðsins Ask-

lepeios. Á efri árum Sókratesar var dýrkun hans mikil (eftir pláguna 429 f. K.). Um hann fjalla síðustu orð Sókratesar: „Ég skulda Asklepeios hana.“

En hverfum frá öllu þessu til stórtorgsins Agóru, því að þar eyddi Sókrates flestum stundum ævi sinnar. Og fyrir framan hinar dórisku marmarasúlur nýjustu stórbyggingar torgsins, Stóu Seifs, ræddi Sókrates við Euþyfrón, áður en hann varð að mæta fyrir dómurum sínum. Og einhvers staðar hér var varnarræða Sókratesar haldin. Um fangelsi Sókratesar vita menn ekki, en Plató segir, að það hafi verið eigi langt frá þessum stað. Og þegar Krító biður Sókrates að bíða um stund með að tæma eiturbikarinn, því að enn sé sól á fjallinu, þá á hann við Hymettos í austri, gegnt Agóru. Við stórtorgið í Aþenu hefur Sókrates því í síðasta sinn rætt við vini sína um dauðann og eilífðina, meðan rauðir kvöldskuggar færðust yfir Hymettos, fjall hins bláa marmara.

## *Öld Sókratesar*

Hér hefur verið brugðið upp nokkrum svipmyndum úr hinu veraldlega umhverfi Sókratesar, Aþenu. En hvernig var þá sú öld, sem hann lifði á? Hvernig var hið andlega umhverfi hans og sá jarðvegur, sem hann er sprottinn úr?

Um miðbik fyrsta árþúsundsins fyrir Krists burð er líkast því, sem margir hinir stórbrotnustu andar mannkynsins hefji samtímis eina hina mestu framsókn, sem um getur í sögu þess.

Skömmu fyrir aldamótin 500 f. K. sneri Gautama Búdda til Uruvelaskógar til þess að flytja heiminum boðskap sinn. Skömmu síðar reit Lao Tze bók sína um Veginn. En samtíða honum í Kína voru heimspekingarnir Kon-

fúsíus, Mensius og Chuang Tzu. Í Persíu reis þá upp spámaðurinn Zaraþústra og í Júdeu Jesaja, Esra og aðrir spámenn Ísraels. Samtíða þessum mönnum kemur Sókrates fram á sjónarsviðið í Grikklandi. Pyþagóras, Zenó og Anaxagóras voru nokkru eldri, en Plató og Aristóteles nokkru yngri.

Í Aþenu á dögum Sókratesar voru aðeins 350.000 íbúar og um 40 þúsundir vopnfærra manna. Þó var Aþena orðin stórveldi, sem hafði skipti við öll lönd Miðjarðarhafsins. Þar eins og í öðrum grískum borgríkjum höfðu þjóðmálin þróazt frá ættfeðrastjórn og einveldisstjórn hinna sterkustu til höfðingjastjórnar hinna ríkustu. En alþýðan, demos, skipaðist þá um leið í undirstétt, sem tók að vefengja rétt þeirra, sem forráð og sérréttindi höfðu. Það ástand, sem þetta óhjákvæmilega skapaði, notuðu ýmsir metorðagjarnir og djarfir menn á 7. og 6. öld f. K. til að leggja undir sig öll völd og gerast einvaldir (Tyranar). Þegar Sókrates fæðist, hafði alþýðan brotið veldi þeirra á bak aftur og stofnað í Aþenu fyrsta lýðveldi sögunnar. Lýðræðið hafði leyst einræðið af hólmi.

Þeseifur er sagður hafa fyrstur sameinað öll

ríki Attiku í eitt og gert Aþenu höfuðborg hins nýja ríkis (á 8. eða 10. öld f. K.). Þjóðin skiptist þá í þrjár stéttir: aðal, smábændur og iðnaðarmenn. — Þegar Þeseifur féll frá, komst valdið í hendur ríkra höfðingja aðalsins. Gekk hann mjög á rétt smábændanna, iðnaðarmanna og kaupmanna. Til að bæla niður uppreisn þessara stétta fékk aðallinn aðstoð harðstjóra frá Korinþu og Megara. Loks brauzt alþýðuforinginn Pisistratos til valda 561 og gerðist einvaldur. Synir hans, Hippias og Hipparchos, erfðu völdin eftir hans dag. Hipparchos var myrtur á Panaþenu-hátíðinni 514 og Hippias rekinn frá völdum 510. Eftir það var lýðveldið stofnað.

Skömmu fyrir daga Sókratesar reyndu Persar að gera Grikkland að hjáleigu austurlenzks einræðiskonungs. En Grikkland undir forustu Aþenu vann lokasigur yfir Persum í orustunum við Salamis og Plataeu níu árum fyrir fæðingu Sókratesar. Hófst þá gullöld í Aþenu, öld Periklesar. Stóð hún þar til Pelópseyjastríðið (431—404) batt enda á veldi Aþenu. Þannig hófst í æsku Sókratesar fyrsta lýðræði heimsins, sem vann glæsilegan sigur á erlendu stórveldi og skapaði stórstígar framfarir á öll-

um sviðum þjóðlífsins. En þegar Sókrates er miðaldra maður, hefjast í Aþenu gerólíkir tímar, eins konar „eftirstríðsár“. Og á síðustu fjórtán æviárum hans breyttist stjórnarfarið mjög ört. Var fyrst lýðræði, síðan auðmannastjórn, þá aftur takmarkað lýðræði, síðan algert lýðræði eða múgstjórn. Upp úr því hófst valdatímabil hinna þrjátíu harðstjóra, — og loks lýðveldið endurreist. Öll þessi stjórnarform virðast hafa átt sína annmarka. — Hin innri véfrétt Sókratesar varaði hann jafnan við að gefa sig að stjórnmálum. Samt varð hann að lokum eitt af fórnardýrum hinna grimmu átaka, sem urðu milli siðlítillar einræðisstjórnar og sjóndaprar múgstjórnar.

Þróun bókmennta og lista er að sjálfsögðu óaðskiljanleg þessari þjóðfélagslegu þróun. — Á dögum Hómers er hreystin og karlmennskan hinar æðstu dyggðir, og skáldið er kátt eins og víkingur, sem hyggur á strandhögg. Þá er borgríkinu stjórnað af hinum sterkasta, þeim, sem fremstur gekk í orustunni. Harðstjórar 7. aldar ræna skáldið frelsi sínu og gleði sinni. Simonides og Alkaios ortu ádeilukvæði og réðust gegn harðstjórunum. Í vitund þeirra urðu guðirnir einnig harðstjórar, sem ekki þoldu að

sjá mannlega velmegun og hamingju. Þess vegna urðu skáldin bölsýn og litu dökkum augum á tilveruna.

Skáld 6. aldar, Aesop og Phocylides til dæmis, halda áfram ádeilum sínum á harðstjóra og taka jafnvel að gagnrýna ýmsar gamlar kenningar í andlegum málum og krefjast skoðanafrelsis og málfrelsis. — Loks hefst uppreisn í grískum nýlendum með stuðningi Aþenu gegn einveldi og harðstjórn Persa.

Þegar Sókrates fæðist, eru skáldin orðin frjáls. Aeschylos hafði þá fyrir tveimur áratugum samið óð sinn til frelsisins og föðurlandsins, leikrit sitt: „Persarnir". En Sófókles og Euripides voru þá unglingar. Með Sókratesi vaxa því úr grasi margir listamenn og skáld, sem allur hinn menntaði heimur þekkir enn í dag. Og bæði Sókrates og allir aðrir heimspekingar fornaldarinnar tömdu sér málfar skáldanna og notuðu líkingar úr goðsögum þeirra. Þannig héldust skáldskapur og heimspeki í hendur.

Eðlilegt var, að á slíkum tímum risu öldur í andlegu lífi Aþenu hærra en nokkru sinni fyrr í sögu hennar. Í því ölduróti sundlaði margan, og ýmsir tóku það ráð að loka aug-

um og eyrum fyrir öllum nýjungum og halda fast við hina gömlu kjölfestu, Hómerskvæði og trúna. Aðra ærði hið nýfengna frelsi, ný völd og auður. Þeir afneituðu öllu, sem áður hafði verið í heiðri haft, og vildu rífa niður allt, sem fortíðin hafði byggt upp. Þeir glötuðu trúnni og hinum siðræna grundvelli hennar og höfnuðu í auðhyggju og vonleysi. Veraldargæðin ein skiptu þá nokkru máli. Spámenn þessa nýja lífsviðhorfs var hópur greindra menntamanna, sem kallaðir voru Sófistar. Þeir vísuðu framgjörnum unglingum leið til valda með mætti þankans og orðsins. Frá því sjónarmiði séð var öll fræðsla þeirra hagnýt, og sjálfir högnuðust þeir vel á fræðslu sinni. Hún miðaðist öll við kröfur valdabaráttu og auðhyggju. Sófistarnir kenndu mælskufræði og hvernig fylgja ætti máli fram til sigurs. Á þeim tíma, þegar hver maður varð sjálfur að sækja og verja mál sín fyrir dómstólum og á þingum, varð mælskulistin aldrei ofmetin. Sannleikur og réttlæti urðu aukaatriði, því að Sófistarnir kenndu, að slíkt væri raunar ekki til, nema hvað hverjum og einum þætti satt og rétt! Maðurinn sjálfur er mælikvarði allra hluta og algild sannindi ekki til. Sá sterki er ham-

ar, hinn veiki er steðji. Aflið er rétturinn, og aflið var orðið: mælskulistin. Sá, sem slunginn var í mælskulist og rökflækjum, gat ákveðið, hvað rétt og gott var í hverju máli. Snilld hans var einmitt í því fólgin að láta það sýnast rétt, sem hagsmunir hans kröfðust að væri rétt, og það gott, sem honum kom vel. Til þess að ná þessu marki varð ræðumaðurinn, ef svo bar undir, að geta látið hið verra sýnast hið betra, hið sanna logið og hið rétta ranglæti. Eiginlega heimspeki og vísindi leiddu Sófistarnir hjá sér að mestu, þar sem þau voru ekki vænleg til fjár, ekki hagnýt. — Þannig var lífsskoðun Sófistanna í raun og veru aðeins réttlæting á auðhyggju þeirra og uppfræðslu um, hvernig bezt væri að olnbogast áfram í heiminum. — Kenningar þeirra leiddu til upplausnar á siðgæði, enginn vissi lengur, hvað var satt og rétt. Þeir höfðu leyst úr læðingi öfl, sem þeir réðu ekki við. Nýjar ráðgátur hertóku hugi manna og hið andlega öryggisleysi og upplausn óx eftir því, sem fræðsla þeirra varð meiri og rökræðurnar fleiri. Hin gamla kjalfesta sveik alla nema þá tregustu, en í hennar stað kom þó aðeins veraldlegur hégómi og neikvæð og hol lífsskoðun vonlausra manna.

Öldin kallaði á mann, sem greint gæti hismið frá kjarnanum, þrætt hinn gullna meðalveg og byggt andlegu lífi nýjan grundvöll. — Og þá gekk Sókrates fram á sviðið.

## *Líf Sókratesar*

Skip tímans týnast á hafi gleymskunnar, og rétt saga um löngu liðna tíð verður aldrei skráð. Ekki heldur saga Sókratesar. Að vísu gerðust margir til að skrifa bækur um Sókrates og í hans nafni eftir hans dag. En allir hafa þeir eflaust eignað Sókratesi nokkuð af sínum eigin viðhorfum. Vafasamt er því, hvort nokkur hefur dregið hina réttu sannsögulegu mynd Sókratesar, enda þótt ýmsir hinna beztu fræðimanna okkar tíma hafi talið sig þess umkomna. Myndin af Sókratesi, eins og hún hefur verið mótuð af gáfaðasta lærisveini hans, Plató, er þó ef til vill sú eina, sem skiptir okkur nokkru máli. Líklegt er, að hún sé sönnust. Án efa er hún fyllst og bezt gerð. Og hún ein hefur haft varanlegt gildi fyrir síðari tíma. Sá

Sókrates, sem svifið hefur yfir vötnum vestrænnar siðmenningar í meir en tvö þúsund ár, er aðeins sá Sókrates, sem Plató kynnir okkur í verkum sínum. Með þessu er ekki átt við, að Plató sé höfundur þeirra hugsana, sem Sókrates er frægastur fyrir. Þvert á móti er full ástæða til að ætla, að Plató setji ekki fram neitt meginatriði í heimspeki sinni, sem Sókrates þekkti ekki og hefur rætt við þá, sem á fund hans leituðu. Þetta er sjónarmið sumra hinna beztu fræðimanna um gríska heimspeki, t. d. John Burnets, A. E. Taylors og hins gríska fræðimanns Þeodorakopoulosar, sem nú er hinn eini prófessor í heimspeki við háskólann í Aþenu.

Austur af Akrópólis, sunnan við marmarafjallið Hymettos, er nú að rísa eitt fegursta borgarhverfið í Aþenu, Ambelópkipi. Stórhýsi, stjórnarbyggingar og sendiráð standa nú þar, sem fyrrum voru aðeins dreifð hreysi verkamanna auk nokkurra húsa auðmanna og höfðingja, sem dregið höfðu sig út úr háreysti borgarinnar til að njóta sveitasælunnar. Hér á þessum stað fæddist Sókrates fyrir næstum hálfu þriðja árþúsundi. „Sókn“ þessi nefndist þá

Alópeke. Hertir af erfiðisvinnu og veðurbitnir af brennheitri sól og vetrarkuldum gengu íbúar þessa staðar í grjóthöggið á fjallinu. „Gullöld Periklesar“ var að hefjast, og hingað þurfti að sækja marmarann í hina nýju Aþenu, heimsborgina, sem reisa varð úr rústum eftir stríðið við Persa. Eðlilegast væri að ætla, að Sókrates hafi vaxið upp við þessi kjör erfiðismannsins. Það mundi skýra vöxt hans og líkamshreysti og hvers vegna hann á hermennskuárum sínum þolir manna bezt hita, kulda og hvers konar mannraunir. Engar sannanir eru þó fyrir þessu og Plató dregur upp aðra mynd af þeim feðgum Sófróniskosi og Sókratesi.

Ekki var fæðing Sókratesar færð til bókar, og af henni ganga engar sögur. Um fæðingarár hans vita menn þó nokkurn veginn. „Þetta er í fyrsta sinn, sem ég er kallaður fyrir dómstólana, og er ég nú sjötugur að aldri,“ segir Sókrates í varnarræðu sinni, sem haldin var, eins og kunnugt er, árið 399 f. K. Í sumum handritum hennar stendur þó „yfir sjötugt“. Vandséð er, hvort réttara er. Virðist eðlilegast að álíta, að Sókrates hafi fæðzt 469 f. K. Faðir Sókratesar, Sófróniskos, er af flestum fræði-

mönnum talinn stunda steinsmíði. Líklega er sá orðrómur réttur, þó að hann fái að vísu enga staðfestingu hjá Plató og ekki heldur í ritum Xenófóns. Þessa er fyrst getið hjá ádeiluskáldi einu á 3. öld f. K. En þó að Plató tali ekki um, að Sófróniskos hafi stundað þessa iðn, þá kann svo að hafa verið samt sem áður. Líklegt er, að Plató hefði getið þess, ef Sókrates hefði fæðzt í auðugri ætt eða væri kominn af höfðingjum. Í Alópeke hefur öll alþýða stundað grjóthöggið á fjallinu. Plató, sem sjálfur var af tignustu ættum Aþenu, hefur ef til vill einhverra orsaka vegna ekki talið ástæðu til að ræða um grjóthöggið í sambandi við söguhetju sína og læriföður. Í ritum hans „Lashes“ og „Krító“ birtist Sófróniskos sem vel metinn borgari af gamalli og gróinni ætt, sem rakin var til þjóðsmiðs Aþeninga, Dedalosar! Plató gefur í skyn, að Sófróniskos hafi verið sæmilega í álnum og verið í vinfengi við ýmsa hina fremstu menn í sókninni, þar á meðal sjálfan Aristeides, sem stjórnaði her Grikkja í úrslitaorrustunni við Persa.

Víða er þess getið í ritum frá síðari tímum, að Sókrates hafi stundað „iðn föður síns“. Og ef litið er á mynd Sókratesar, er varla hægt

að verjast þeirri hugsun, að líkamsbygging hans hafi meir mótazt af erfiðisvinnu en áhyggjuleysi hins ríka æskumanns. Samt verður að játa, að þetta styðst við ónógar heimildir, og sumar, eins og t. d. sú, að Sókrates hafi gert líkneski af þokkagyðjunum á Akrópólis, eru sannanlega rangar. Plató minnist hvergi á, að Sókrates hafi, hvorki í æsku sinni né síðar, stundað nokkra iðn. Í „Krító“ talar hann um, að Sókrates hafi fengið hina lögboðnu menntun í íþróttum, bókmenntum, tónlist og dansi. Á sama hátt og Plató lætur Sókrates í ritum sínum aðeins ræða við heldri menn og heimspekinga, eins getur hann aðeins um þá æskufélaga hans í Alópeke, sem þekktastir urðu: Krító hinn auðuga og Lysimachos, son Aristeidesar. Lysimachos fyllti síðar flokk Sókratesar.

En hvernig sem atvinnu Sókratesar og föður hans kann að hafa verið háttað, þá virðist eftir þeim heimildum, sem helzt er við að styðjast, að Sókrates hafi ekki átt við örbirgð að búa í uppvextinum. Fræðimaður einn frá 3. öld f. K., Demetrios frá Falerum, getur þess, að Sókrates hafi tekið að erfðum hús og allmikið fé, sem hann hafi fengið Krító, vini sín-

um, í hendur til ávöxtunar. Örbirgð sú, sem Sókrates talar um í varnarræðunni og skopazt var að af gamanleikritaskáldum Aþenu, hefst því ekki fyrr en síðar á ævinni, eftir að Sókrates hefur gefið sig óskiptan að köllun sinni og orðið fátækur á því að auðga heiminn.

Móðir Sókratesar, Fainarete, var ljósmóðir. Hún virðist hafa verið tvígift og átt annan son, Patrókles, með öðrum manni. Sókrates líkti oft starfi sínu við ljósmóðurstarf móður sinnar: Hún hjálpaði konum til að fæða börn. — Hann hjálpaði mönnum til að leysa andann úr fjötrum sínum og fangelsi.

Á hermennskuárum sínum, þegar Sókrates var orðinn miðaldra maður, gekk hann að eiga konu þá, er Xanþippa hét, og átti með henni þrjá syni: Lamprokles, Sófróniskos og Menexenos.

Xanþippa virðist hafa verið allmiklu yngri en Sókrates, því að þegar hann beið dauða síns, var yngsta barnið enn hvítvoðungur. Má vera, að hún hafi verið af betri ættum en Sókrates, því að það er fyrst annar sonur þeirra, sem látinn er heita eftir föður Sókratesar. Margt hefur verið ritað um geðofsa Xanþippu og erjur hennar við bónda sinn. Um

þetta urðu söguritararnir þeim mun fróðari, eftir því sem lengra leið. Sumir kunnu einnig þá sögu að segja, að Sókrates hafi samtímis því, sem hann var kvæntur Xanþippu, einnig verið kvæntur Myrtu, dóttur Aristeidesar. Plató minnist þó hvergi á þetta, og ef treysta má frásögn hans, virðist Xanþippa aðeins hafa verið venjuleg grísk kona, suðræn til orðs og æðis og haldin kvenlegri afbrýðissemi gagnvart vinum manns síns, sem Sókrates virtist frá hennar sjónarmiði séð meta meir en konu sína og heimili. Í „Phaidon“ er frá því sagt, að þegar Sókrates beið dauða síns í fangelsinu, hafi vinir hans komið að morgni hins síðasta dags í heimsókn til hans. Phaidon segir frá: „Þegar við gengum inn, sáum við, að Sókrates hafði verið leystur úr hlekkjum sínum og hjá honum sat Xanþippa, sem við allir þekkjum, með barn hans í fangi. Þegar Xanþippa sá okkur, setti að henni ákafan grát, og hún sagði eins og konum er títt: „Sókrates, þetta verður í síðasta sinn, sem þú ræðir við þessa vini þína.“ Sókrates leit á Krító, og sagði: „Láttu fylgja henni heim.“ Nokkrir úr fylgdarliði Krítós leiddu hana út, en hún hljóðaði og barmaði sér. Sókrates settist þá upp og nudd-

aði fótleggi sína, sára undan hlekkjunum, og mælti: „Undarleg er gleðin og kynlega blönduð sorginni...“

Xanþippa kom aftur í fangelsið síðar um daginn með öðrum konum fjölskyldunnar og ræddi við Sókrates um stund...“

Sókrates var um flest manna sérkennilegastur. Svipur hans, fas og hættir urðu mönnum undrunarefni. Hvar sem hann fór, vakti hann forvitni manna. Hann var manna ljótastur. Ýmist var honum líkt við skógarguð eða broddflugu. Auk þess var hann hirðulaus um klæðnað sinn. Gekk jafnan í sömu snjáðu skikkjunni og berfættur nema við alveg sérstök tækifæri. Tilburðir hans ýmsir voru einkennilegir, og göngulagi hans var líkt við kjag sjófugla. Menn stöldruðu við. Það safnaðist um hann hópur, og Sókrates byrjaði að tala. Ræða hans lét engan ósnortinn. Hún gerði suma að óvinum hans og hatursmönnum, aðra að vinum og áköfum fylgjendum. Í þeirra augum vék hið hrjúfa yfirborð fljótlega fyrir nýrri mynd, andanum, sem undir því bjó. Alkibiades segir: „Þessum ytra ham hefur hann aðeins varpað utan um sig eins og úthöggni síleninn, en hið innra, sé honum lokið upp, hvílík gnótt

goðspekinnar ætlið þér þá, góðir samdrykkjubræður! að þar sé fyrir? — Vitið þið, að hvorki kærir hann sig hót um það, hvort einhver er fríður, heldur lítilsvirðir hann það svo stórlega, að enginn skyldi trúa; né heldur um það, þótt einhver sé ríkur eða hafi nokkurra slíka yfirburði til að bera, sem fjöldinn dáir, heldur álítur hann öll þessi gæði einskis verð, og oss metur hann að engu, en lifir allan sinn aldur látandi ólíkindalátum og spaugandi við aðra. En þegar honum verður alvara og hann hefur upplokizt hið innra, þá veit ég ekki, hvort nokkur ykkar hefur séð goðalíkneskin, sem þar eru inni fyrir? En ég hef einu sinni séð þau, og virtust þau mér svo guðdómleg, svo gullin, svo ljómandi fögur og aðdáanleg, að ég áleit sjálfsagt að gjöra allt það, sem Sókrates skipaði mér að gjöra.“ (Samdrykkjan).*

Sókrates þoldi hita og kulda manna bezt, hungur og líkamlegar þrengingar. Og að hreysti og hugrekki var hann öllum fremri, hvort sem um mannraunir vígvallarins var að ræða eða það að standa með réttlætinu gegn æstum múgnum í þingsölum Aþenu. Sókrates

---

* Þýðing Steingr. Thorsteinson.

var þó enginn alvarlegur meinlætamaður, þótt hann bæri skort og harðræði manna bezt, þegar á þurfti að halda. Hann var að eðlisfari hófsamur, en þó glaðlyndur og gamansamur, og í mannfagnaði skarst hann hvergi úr leik. Í „Samdrykkjunni“ (Symposium) segir Plató frá frægu hófi, sem Sókrates sat: Skáldið Agaþon hafði unnið bókmenntaverðlaun og efnir til mikillar veizlu. Sókrates er heiðursgestur meðal margra góðra manna. Þar eru skáldin Aristófanes, Faidros og Pausanias. Framan af skemmta menn sér við ræðuhöld, og umræðuefni þessara andans manna er ástin. Faidros mælir: — Ástin er elzt, göfugust og máttugust guðanna. Hún er uppspretta alls þess, sem bezt er. Venjulegum mönnum gefur hún hugrekki til að lifa og deyja. Ungmenni gerir hún að hetjum, því að ástfanginn maður fyrirverður sig fyrir dáðlausa framgöngu í nærveru þess, sem hann elskar. Fáið mér her af elskhugum, og ég skal sigra heiminn. Þá tekur Pausanias til orða: — Ekki er það alveg rétt sem Faidros segir, því ástin er margvísleg Við verðum að greina milli hinnar jarðnesku ástar og þeirrar himnesku, milli samdráttar tveggja líkama annars vegar og samruna tveggja sálna hins

vegar. Hin fyrri tæmir aðeins bikar sinn, en hin sanna ást skeytir engu um fegurð, fé eða völd. Hin holdlega girnd hverfur, þegar æskublóminu fölnar, en hin göfuga ást sálarinnar er eilíf.

Stórskáldið Aristófanes hefur fengið hiksta undir þessum ræðum, en nær sér litlu seinna og tekur að segja sögu: — Í gamla daga voru maður og kona sameinuð í einum líkama. Sá líkami var hnöttóttur í lögun, hafði fjórar hendur og fjóra fætur og höfuð með tvö andlit. Þessi maður gat gengið, jafnt aftur á bak sem áfram, og þyrfti hann að flýta sér, lét hann sig velta áfram með ofsahraða og notaði þá hendur og fætur eins og rimla í hjóli. Þessi tvíkynja ættbálkur var óhemju sterkur og átti sér takmarkalausan metnað. Hann var fullur uppreisnaranda og hugðist fara með ófriði á hendur guðunum. Guðirnir héldu þing og ræddu um, hvernig bezt yrði snúizt við þeirri hættu, sem af þessu stafaði. Loks datt Seifi snjallræði í hug: „Kljúfum þá í tvennt,“ sagði hann, „þeir munu þá aðeins hafa hálft afl, en fórnir þeirra til guðanna verða helmingi fleiri.“ Síðan klauf Seifur þennan tvíkynja mann í karl og konu. Upp frá þeim degi hafa þessir

tveir helmingar, sem upphaflega voru eitt, þráð að sameinast, og þessi þrá til að sameinast er það, sem kallað er ást. — Ýmsar fleiri ræður voru haldnar, en síðastur talaði heiðursgesturinn, Sókrates: — Hvernig ætti fáfræði mín að standast nokkurn samanburð við allan þennn vísdóm og mælsku, byrjaði Sókrates. Samt líður ekki á löngu, þar til hann er búinn að gera röksemdir fyrri ræðumanna haldlausar og verður því að byggja upp nýja kenningu um ástina. Sókrates játar sig þó fáfróðan um þetta efni, en vitnar til konu einnar, Díótímu frá Mantineiu, sem Sókrates segir að frætt hafi sig um heimspeki ástarinnar: — Ástin, segir hann, er hinn mikli sendiboði guðs til manna. Hún fær manninn til að þrá hið fagra og hið góða. Sá, sem elskar, þráir ekki aðeins fegurðina, heldur einnig að skapa hana og gera hana ódauðlega. Þess vegna elskast maður og kona til að endurnýja sig og þannig að gera hið stundlega að eilífð. Fegurð er hið góða, og hið góða er hamingja. Sá, sem þráir fegurðina í veröld formsins, mun síðar þrá fegurðina á æðra stigi í veröld andans. Þar birtist hún sem vizka, rættlæti og trú. Loks birtist hún í eilífðarþrá mannsins, sem leiðir hann til æðra lífs í

heimi hins sanna veruleika. Þegar hér var komið sögu, var Alkibiades leiddur drukkinn í salinn og tekur sæti milli Agaþons og Sókratesar. — Þið virðizt, herrar mínir, vera ódrukknir, slíkt er óþolandi. Látið mig stjórna veizlunni, þar til ykkur hefur verið veitt sómasamlega. Hann lét fylla vínker eitt mikið og drakk. Lét fylla það aftur og bera Sókratesi. Sókrates tæmdi fullið. Var nú efnt til kappdrykkju í salnum. Í morgunsárið sátu aðeins þrír uppi, Agaþon, Aristófanes og Sókrates, og létu þeir stóran bikar ganga á milli sín. Sókrates ræddi við skáldin um list þeirra og útskýrði, hvers vegna hinn sanni listamaður hlyti að skilja og geta túlkað með list sinni gleðina og sorgina jöfnum höndum. Þegar hér var komið, féll Aristófanes undir borðið og skömmu síðar einnig Agaþon. Gekk þá Sókrates úr veizlunni upp til Lykeion (nálægt Lykabettos), þar sem íþróttamenn voru vanir að iðka mennt sína. Þar laugaði Sókrates sig og gekk síðan til sinnar venjulegu iðju.

Víða í ritum Platós er talað um spámannlega hæfileika og dulræna reynslu Sókratesar. Þessi hlið Sókratesar hefur oft viljað gleymast hjá

þeim fræðimönnum, sem líta á Sókrates sem boðbera rökréttrar og vísindalegrar hugsunar. Telja þeir þessar frásagnir stafa eingöngu af dulhneigð Platós sjálfs. Rökhyggja virðist þeim algjörlega andstæð dulrænum vitrunum trúmannsins. Þetta tvennt virðist þó óneitanlega hafa farið vel saman hjá Pyþagórasi t. d., og kenningar hans og suma lærisveina þekkti Sókrates mjög vel, eins og fyrr segir. Auk þess má benda á, að mest ber á dulhneigð Platós í hinum fyrri ritum hans, en þar gætir anda Sókratesar mest. Í hinum síðari ritum hans, þar sem Sókrates hverfur í skuggann fyrir hans eigin kenningum, verður hún mun minni. Bendir þetta til, að dulhyggja Sókratesar hafi verið raunveruleg og jafnvel meiri en hjá Plató sjálfum.

Algengt var, að Sókrates félli skyndilega í djúpa hugleiðslu, sem venjulega stóð stutta stund, en gat staðið sólarhring. Vinir hans voru orðnir þessu vanir og létu hann, þegar svona stóð á, afskiptalausan. Í Symposium er einnig nefnt dæmi um þessa sérkennilegu reynslu Sókratesar. Sumarmorgun einn í herbúðunum við Poteidaia, segir Alkibiades, var Sókrates að brjóta heilann um eitthvert mál-

efni, sem hann gat ekki leyst. Ekki vildi hann þó gefast upp við að brjóta það til mergjar. Hann stóð því hreyfingarlaus í sömu sporum fram til hádegis. Hermennirnir fóru þá að furða sig á þessum háttum Sókratesar, og sá orðrómur fór um herbúðirnar, að hann hefði staðið hreyfingarlaus frá því snemma morguns niðursokkinn í hugsanir sínar. Og þannig stóð Sókrates allan þann dag. Um kvöldið fóru margir hermannanna með ábreiður sínar út undir bert loft til að fylgjast sem gerst með Sókratesi og sjá, hve lengi hann gæti staðið þannig. En hann bærði ekki á sér alla nóttina. Fyrst þegar dagur rann, vaknaði Sókrates af hugleiðslu sinni til þessa heims. Gerði hann þá bæn sína til hinnar rísandi sólar og hélt síðan leiðar sinnar.

Auk hugleiðslunnar var hin dulræna reynsla Sókratesar fólgin í dulskynjunum og dulheyrnum. Frá barnæsku heyrði Sókrates dularfulla rödd, sem hann hélt að væri sér einum gefin. Hún átti ekkert skylt við rödd samvizkunnar eða rödd skynseminnar, heldur var þessi dularfulla rödd eins og eins konar verndarandi, sem varaði hann við ýmsum hættum, sem ógnuðu honum eða vinum hans. Væri henni ekki hlýtt,

hafði það jafnan illar afleiðingar í för með sér. Sókrates lagði þess vegna eyrun við þessari rödd og trúði á hana. Vegna aðvörunar hennar gaf hann sig eins lítið að stjórnmálum og honum var unnt. Og þegar Sókrates hefur ákveðið að flýja ekki dauðadóm sinn, heldur mæta örlögum sínum í Aþenu, þá er það vissa hans, að röddin hefði aðvarað sig, hefði sú ákvörðun verið röng. Sókrates trúir ekki aðeins á sína eigin véfrétt. Hann leggur einnig mikið upp úr hinum „fornu stöfum“ Orfeusarlaunhelganna og leitar á fund dulfróðra kvenna (Díótímu t. d.) til þess að afla sér fræðslu og hlýða á forspár. Plató, sem byrjar ritferil sinn sem leikritaskáld, sem leggur sig eftir að skilja og skýra sérkenni manna, dregur upp svo skýra mynd af þessari hlið Sókratesar, hinum dulræna djúphyggjumanni, að ætla má, að Plató hafi einmitt litið á þessa eiginleika hans sem þann kjarna, sem veitt hefði Sókratesi trú á, að hann ætti hlutverk að vinna, og gefið honum siðferðisstyrk og mátt til að fórna því öllu.

Slíkir trúmenn gerast venjulega prédikarar og bera perlur sínar á torgin, þar sem þær svo oft eru fótum troðnar. Sókrates fór öðruvísi

að: Um þennan innsta helgidóm sinn og aflgjafa reisti hann þrefaldan múr, heilbrigðrar skynsemi, kímni og kaldrar rökvísi, og gegnum þennan múr brauzt enginn óboðinn gestur.

Þetta er ástæðan til, að sumir, sem um Sókrates fjalla, komast aðeins að varnargarðinum, en sjá aldrei kjarnann, sem hann er byggður til að vernda. Þess vegna hefur Sókrates svo oft einungis verið gerður boðberi hinnar vísindalegu rökréttu hugsunar, er afneitar öllu, sem ekki verður „sannað", og kaldhæðnin talin höfuðeinkenni hans. En hvað er þessi kaldhæðni annað en venjuleg kímni manns, sem skynjað hefur smæð mannlegra vitsmuna gagnvart lífsundrinu, en umgengst daglega Sófista og stjórnmálamenn, sem halda sig vitra og máttuga? Hin mikla rökvísi Sókratesar fær hann til að efast um flesta hluti, ekki sízt getu skynseminnar til að skilja veröldina. Þó er það þrennt, sem efi hans nær ekki til, þrennt, sem er kjarni trúar hans: Að æðri máttarvöld séu til. Að veröldinni sé stjórnað af alviturri forsjón og þess vegna sé heimssamræmið til. Að sálin sé til, sé ódauðleg og lifi sínu sjálfstæða lífi. Og þetta var á tímum, þegar Aþeningar trúðu almennt á, að dauðinn byndi enda á allt.

Sókrates gæti ekki verið fulltrúi 5. aldarinnar í hinum gríska heimi, nema því aðeins að hann sé samnefnari grískra heimspekinga sem lifðu fyrir hans dag eða á hans tíð; — sigtið, sem skilur milli þess, sem lifir, og þess, sem deyr. Ekki verður annað séð en að Sókrates hafi haft fullkomna þekkingu á vísindum og heimspeki síns tíma, tileinkað sér hið bezta og vaxið upp úr henni. Þess vegna verður mannleg þekking svo smá í augum Sókratesar.

Í Phaidon er skýrt frá lærdómi Sókratesar. Pyþagóringarnir (Simmias og Kebes) ræða við Sókrates og leita álits hans um, hvort líf sé eftir dauðann. Áður en hann svarar þessu, skýrir hann frá lærdómi sínum, m. a. til að sýna vanmátt vísindanna til að svara slíkum spurningum. Þessu dæmi skal nú fylgt hér og reynt að gera grein fyrir lærdómi Sókratesar, þótt á nokkuð annan hátt verði en í Phaidon.

Prófessor A. E. Taylor telur sennilegt, að Sókrates hafi í æsku verið innvígður í launhelgar Orfeusar. Þó að naumast hafi verið færðar fullar sönnur á þetta, þarf ekki að draga í efa, að Sókrates hefur numið og á vissan hátt tileinkað sér fræði þessara trúarbragða,

því að þau eru hinn rauði þráður í viðræðum Sókratesar (í Phaidon) við vini sína í fangelsinu um sálina og ódauðleikann.

Þessi trú var með Grikkjum kennd við „skáldið Orfeus“, — en menn þekkja hvorki ljóð hans né sögu. Annarra spámanna hennar í Grikklandi er ekki heldur getið. Getur ástæðan ekki verið önnur en sú, að þessi trúarbrögð séu innflutt til Grikklands, enda bera þau hinum austurlenzka uppruna sínum augljóst vitni. Á 6. öld fyrir Krists burð hafði Orfeusartrúin í för með sér víðtæka trúarlega vakningu. — Söfnuður hennar stóð opinn öllum, sem játuðust undir reglur hennar, og í bernsku Sókratesar leitaði flest trúhneigt fólk til launhelga hennar. Einvaldurinn Pisistratos játaði t. d. Orfeusartrú vegna þeirra vinsælda, sem hún naut hjá „alþýðunni“, og jafnvel vísindamaðurinn Empedokles, sem stofnaði læknaskólann á Sikiley. Meðal Grikkja á Suður-Ítalíu virtist hún einnig hafa átt fjölmarga áhangendur. — Þar hafa fundizt gulltöflur með ýmsum áletrunum trúarlegs eðlis. Hafa þær verið grafnar með hinum innvígðu. Á eina af þessum töflum er skráður eftirfarandi leiðarvísir fyrir sálina við brottför hennar úr þessum heimi: „Í

höll Hadesar muntu sjá á vinstri hönd Kýprestré og undir því lind eina. Forðastu þessa lind. Þá mun þér birtast önnur. Sú lind er hið svala vatn, er streymir frá vötnum minninganna, og gæta hennar verðir. Seg við þessa verði: „Ég er barn jarðarinnar og himinsins, ég er af guðlegum uppruna — og þið vitið það sjálfir. Gefið mér að drekka hina svölu veig úr vötnum minninganna.“ — Og þeir munu gefa þér að drekka af vatni ódauðleikans.“ Hér eins og víða er talað um vegina tvo, þann, sem liggur til glötunar, og hinn, sem til lífsins liggur. Þessir vegir voru táknaðir með stafnum Y af játendum Orfeusartrúar og Pyþagóringum. Í Orfeusarlaunhelgum var kennt, að til væri himnaríki, eins konar hreinsunareldur og loks víti. Hreinar sálir voru sagðar fara til himna, þær óbetranlegu til vítis, en aðrar „vaða hreinsunareldinn“, unz þær hafa afplánað sérhverja yfirsjón. Þar var einnig kennt, að maðurinn hefði lifað áður, ætti sér fortilveru. — Kennt var þar og, að sálin mundi fæðast ótal sinnum inn í þennan heim í ýmsum gervum (kenningin um sálnaflakk). Sál mannsins var sögð ódauðleg og guðlegrar ættar. Í öndverðu bjó hún í paradís sinni, máttug, vitur og full-

sæl — en féll úr hæðum sínum til jarðar og lifir þar nú í útlegð. Hómer og Hesíót ortu um eymd og skuggatilveru, sem biði handan grafarinnar. Orfeusartrúin kenndi, að þessi eymdar- og skuggaheimur væri jörðin og þess vegna væri líkaminn fangelsi og gröf sálarinnar.

Sókrates trúir því, að andi mikilla sanninda leynist að baki þessarar trúar. Hins vegar fer Sókrates hörðum orðum um marga Orfeusardýrkendur samtíðar sinnar, sem glatað hafa kjarna trúarinnar og gert hana að hindurvitnum einum. Hér eins og annars staðar varð Sókrates að velja og hafna. Og þær hugmyndir, sem bárust frá Orfeusartrúnni til Sókratesar og Platós og síðar til kristninnar, eru margar og móta skoðanir manna jafnvel enn í dag.

Alveg eins og í fræðum Orfeusartrúarinnar tala Sókrates og Plató um syndafallið og upprisuna, um ódauðleika sálarinnar og guðlegan uppruna hennar, um endurholdgun og fortilveru, hreinsun sálarinnar o. s. frv. Pyþagóringar, Parmenides og Anaxagóras tóku upp margar kenningar Orfeusartrúar — en einnig þeir voru fræðarar Sókratesar. Þegar Parmenides talar um vegina tvo, veg sannleikans og veg

blekkinganna, þá er sú hugmynd alger hliðstæða við kenningu Orfeusartrúarinnar um ástand sálarinnar fyrir og eftir „syndafallið“. Og þessi kenning er um leið vísirinn að hinni frægu aðgreiningu Sókratesar og Platós milli þess, sem er, og þess, sem sýnist vera. Kenningu Orfeusartrúarinnar um ódauðleika sálarinnar gerði Sókrates að sinni og gerðist boðberi hennar, þegar jafnvel ýmsir Pyþagóringar höfðu glatað henni. Þá kenningu Orfeusartrúarinnar, að líkaminn sé fangelsi sálarinnar, kallar Sókrates „háa og torskilda“. Hann virðist þó fallast á hana. Í Phaidon lætur Plató Sókrates segja: „Hvað er hreinsun annað en að losna úr viðjum holdsins, eins og hin fornu fræði (Orfeusartrúin) kenna?“ „Hreinsunin“ var skilyrði þess, að sálin fengi snúið aftur til paradísar sinnar. Og hér komumst við e. t. v. næst því að skilja, hvers vegna það er trú Sókratesar, sem knýr hann til að fórna heimspekinni lífi sínu og fá aðra til að iðka hana: Til þess að sálin kæmist aftur upp í hæðir sínar, varð hún að vera hrein, og það, sem gerði sálina hreina, var vizkan (sem einnig fól í sér dyggðina), að leita og afla þessarar frelsandi

vizku nefndist heimspeki. Í augum Sókratesar var því heimspekin frelsunarleið mannssálarinnar.

Þannig er augljóst, að Orfeusartrú hefur haft djúptæk áhrif á kenningar Sókratesar og jafnvel á hætti hans. Í Orfeusarlaunhelgum var iðkuð hugleiðsla. Eins og fyrr segir, féll Sókrates oft í slíka hugleiðslu, og er ekki ósennilegt, að hún hafi átt upptök sín í þessum launhelgum eða verið áhrif frá þeim. Trú Sókratesar á kenningar Orfeusartrúar virðist haldast óbreytt alla ævi til síðustu stundar. „Krító, ég skulda Asklepios hana," voru, eins og kunnugt er, andlátsorð Sókratesar. Asklepios var guð lækninga og heilbrigði. Orfeusartrúin kenndi, að í dauðanum losnaði sálin úr fangelsi sínu, líkamanum, læknaðist af villu og meinum jarðarinnar. Asklepios, guð allra lækninga, var að veita Sókratesi frelsi sitt og hina háu sýn hreinnar sálar. Bar ekki guðinum þakkarfórn fyrir slíka lausn? „Krító," segir því Sókrates, „ég skulda Asklepios hana."

Í tíð Sókratesar var algengt, að trúarleg dulhyggja og vísindi færu saman. Ljóst er, að Sókrates hefur á fyrri hluta ævi sinnar aflað

sér þekkingar á þeim vísindum, sem kunn voru á hans öld. Hins vegar telur hann þau ekki heimspeki, sem geri sálina frjálsa. Í Phaidon lýsir Sókrates því, hvernig hann í æsku hafði ákafa löngun til að fræðast um náttúruna og orsakir allra hluta. Hann nemur kenningar Anaxagórasar og Archelaosar um, hvernig veröldin verður til og líf skapast í andstæðum. Á sama hátt kannar Sókrates fyrirbrigði „himins og jarðar“ jarðfræði og stjörnufræði. Hann velti því fyrir sér, hvort jörðin væri flöt, eins og jónisku heimspekingarnir héldu, eða hringmynduð, eins og Pyþagóras hafði kennt. Árás Zenós á stærðfræðina hefur greinilega haft mikil áhrif á Sókrates, og hann virðist efast um, að stærðfræði sé algild þekking. Sókrates er í Aþenu samtíða hinum mikla rúmmálsfræðingi Hippokrates frá Chios, og bæði Plató og Xenófón skýra frá því, að Sókrates hafi numið þessi fræði. Það er því ekki líklegt að þetta vanmat á andlegu gildi stærðfræðinnar stafi af vanþekkingu. Stjörnufræði álítur Sókrates á sama hátt aðeins hafa hagnýtt gildi. Xenófón staðfestir það sjónarmið og lætur hann segja, að nóg sé að vita nægilega mikið í stjörnufræði til þess að stýra skipi sínu eftir

himintunglum eða sjá á þeim, hvaða mánuður árs er, eða þá hve langt sé liðið nætur. Xenófón bætir þó við, að Sókrates hafi sjálfur þekkt þessi fræði. Hann telur þau aðeins ekki hafa andlegt gildi, ekki vera hina frelsandi þekkingu, sem leysir sálina úr fjötrum og lyftir henni í hæðirnar.

Eitt hinna vísindalegu vandamála, sem Sókrates reyndi í æsku að finna lausn á, var: Með hverju hugsar maðurinn? Sókrates er talinn hafa þekkt Alkmaion frá Krótónu, og augljóst er af „Phaidon“, að hann hefur haft nánar spurnir af kenningum hans. Alkmaion velti þessari spurningu mjög fyrir sér og leitaði efnislegrar eða hinnar líffræðilegu orsakar hugsunarinnar og kenndi, að menn hugsuðu með heilanum og hann væri þess vegna undirstaða alls andlegs lífs. Kenningar Alkmaions um sambandið milli skynjunar, þekkingar og trúar þekkti Sókrates vel, eins og fyrr segir, þótt hvorki hann né Plató sætti sig við þessa einföldu lausn, að efni geti hugsað og sé grundvöllur andans. — Fleiri kenningar voru uppi um hugsunina: „Er það, sem við hugsum með, blóð (kenning Empedoklesar) eða loft (kenning Díógenesar) eða eldur (Herakleitos)?“

spyr Sókrates í æsku sinni. Þessi setning þarf skýringar við: Þeir þrír heimspekingar, sem boðuðu þessar kenningar, voru allir dulhyggjumenn, og þessi orð er vafasamt að skilja bókstaflega, því að í þeirra munni hafa þau ekki almenna merkingu. Þeir virðast ekki álíta, að hugsun hvíli á efnislegum grunni, heldur eigi sér andlega og óræða orsök, sem aðeins verður táknuð með orðum, því að yfir það óræða ná engin orð skilin í bókstaflegri merkingu.

En tákn dulhyggjumanna eru jafnan af fjöldanum skilin bókstaflega. Ef til vill hefur þessi misskilningur á vissan hátt orðið upphaf efnisvísinda! — Vatnið, tákn Þalesar um geranda sköpunarinnar, er síðar af þorra manna skilið bókstaflega sem efnisleg orsök. Loftið, tákn Anaximenesar og Díógenesar frá Apollóníu, var einnig skilið bókstaflega af öllum þorra manna og útlagt þannig, að andinn væri loft og að menn hugsuðu með lofti! Sókrates þekkti Díógenes og heimspeki hans og virðist um skeið hafa tileinkað sér kjarna hennar og notað tákn hans. Ef þetta hefði ekki þannig verið, hefði gamanleikur Aristófanesar um Sókrates verið skot út í nóttina. Leikurinn er að vísu skopstæling. En skopstæling verður að

vera skopstæling af einhverju raunverulegu, annars missir hún algerlega marks hjá áheyrendum. — En í þessum gamanleik („Skýin“) lætur Aristófanes einmitt Sókrates sjálfan kenna, að andinn sé loft. Sókrates er látinn búa í húsi sínu, „Hugmyndasmiðjunni“, og hafa um sig hirð tötrum klæddra spekinga, sem leggja stund á heimspeki, stærðfræði, stjörnufræði og jarðfræði. — Sókrates er látinn sveiflast fram og aftur í körfu til að ná sem mestu af hreinu og þurru lofti til að hugsa með! — Í samræmi við þetta er kórinn myndaður úr skýjum. — Þetta mundi algerlega hafa misst marks hjá gamanleikaskáldinu, hefði Sókrates ekki í raun og veru einhvern tíma notað tákn vinar síns Díógenesar um andann. Af gamansemi fremur en venjulegum misskilningi túlkar svo Aristófanes táknið („loft“) í bókstaflegri merkingu, eins og búast má við, þar sem um skopstælingu er að ræða. Félagar Sókratesar eru gerðir að hálfgerðum vofum, hafa að hálfu sagt skilið við holdið og orðið andar. Hér eins og venjulega er skopstælingin skopstæling af staðreyndum. Og sú staðreynd, sem hún vísar til, er sú, að Sókrates og

félagar hans hafa aðhyllzt þá kenningu Orfeusartrúarinnar, að menn ættu að „iðka það að deyja". Hin táknræna merking þessara orða er sú, að hlutverk heimspekings væri að losa andann úr fjötrum sínum og úr gröf sinni, líkamanum: Sá, sem deyr, mun lifa. Sá, sem losnað hefur úr böndum jarðarinnar, dáið frá jörðinni og hinu lægra eðli, mun lifa í ríki eilífðarinnar. Þetta tákn tekur gamanleikaskáldið einnig bókstaflega og lætur félaga Sókratesar losna við holdið, eftir því sem frekast er unnt, og verða mergsogna og skuggalega eins og vofur.

Þannig eru örlög tákna, að menn, sem ófærir eru um að skilja hina dýpri merkingu þeirra, taka þau bókstaflega. Þess vegna er augljóst, að ýmsir hafa orðið til að kenna, að menn hugsi með lofti, eldi eða blóði, þó að þetta hafi í upphafið verið sagt í táknrænni merkingu.

En hver er þá hin endanlega afstaða Sókratesar til þessara vísinda? — Hann reynir ekki að svara spurningunni um, hvað hugsun sé. Ekki heldur spurningunum um veröldina og orsök hlutanna. Að ráða gátu alheimsins virðist honum líkast því að stara í sólmyrkva. Það

gerir manninn aðeins blindan. Sókrates lét sér nægja að horfa á ímynd sólarinnar speglast í vatninu og ígrunda hið sanna viðfangsefni heimspekinnar: Manninn sjálfan.

## *Köllun Sókratesar*

Maður er nefndur Kairefón. Gamanskáldin grísku líktu honum í leikritum sínum við fölan, blóðlausan skugga eða vofu. Hann var holdskarpur og alvarlegur, og Aristófanes gaf honum viðurnefnið „leðurblakan". Kairefón leitaði hins yfirskilvitlega, og þegar hann vildi fá úr því skorið, hvort meistari sinn, Sókrates, þá hálffertugur að aldri, væri vitrastur manna, hélt hann á fund völvunnar í Delfi.

Véfréttin í Delfi var ævaforn. Erófíl spámaður á þar að hafa sagt fram óorðna hluti frá „Kletti spámannsins". Þaðan var að sögn Trjóustríðið sagt fyrir. Hin fyrsta eiginlega véfrétt er þó talin hafa verið í hofi Móður jarðar (Ge-Themis).

Eftir að Apollo-dýrkunin hófst í Delfi og hið

mikla Apollomusteri var reist, fluttist véfréttin þangað. Á dögum Sókratesar álitu Grikkir þetta musteri mesta helgidóm veraldar. Á veggi þess voru skráð vísdómsorð „hinna sjö vitru manna“, þar á meðal: „Þekktu sjálfan þig“ og „Hóf er á öllu bezt“. Miðja Apollomusterisins var álitin miðdepill jarðarinnar. Þar í klefa einum djúpt niðri í fylgsnum hofsins stóð stór ávalur töfrasteinn, er tákna átti „nafla jarðarinnar“. Hjá honum sat völvan (pythian) á þrífæti sínum, tuggði lárviðarlauf, sem vígð voru Apollo, og andaði að sér eimnum, sem lagði upp um sprungur á gólfinu. Þannig innblásin af guði hofsins mælti hún fram spádóma sína.

Til þessarar völvu leituðu æðstu menn ríkisins, þegar fara skyldi í stríð eða ný lönd numin. Og þangað leituðu margir til að fá lausn á vanda sínum og leita á vit hins ókomna.

Spurning Kairefóns var óvenjuleg: „Er til nokkur maður núlifandi vitrari en Sókrates?“ — Völvan svaraði fyrir munn guðsins og kvað engan vitrari en Sókrates. — Ýmsir fræðimenn, einkum þýzkir, hafa dregið sannleiksgildi þessarar sögu í efa. Sumir halda því fram,

að Kairefón hafi aldrei spurt, aðrir, að véfréttin hafi svarað neitandi til þess eins að þóknast spyrjandanum. En hvernig átti heimspekingurinn Plató, sem kenndi mönnum að leita sannleikans, að sjá sér fært að skýra frá þessu (í varnarræðu Sókratesar) fyrir augum og eyrum samtíðarmanna og kunningja Sókratesar — og jafnvel að kalla til vitni úr þeirra flokki — ef um svo auðhrakin ósannindi hefði verið að ræða? Eins hefði Kairefón og sjálf véfréttin tæplega farið að gera sig að viðundri með slíkri spurningu og slíku svari, hefði Sókrates ekki verið orðinn alþekktur fyrir kenningar sínar og vísindi og talinn skara fram úr öðrum mönnum að vitsmunum. Loks hafa síðari tímar staðfest þetta goðsvar völvunnar og telja Sókrates vitrasta mann síns tíma!

Þegar Sókrates frétti þetta svar véfréttarinnar, varð hann undrandi og spurði sjálfan sig: Hvað getur guðinn átt við með þessu? Hvernig getur sá, sem ekkert veit um hin dýpstu rök, verið vitrastur manna? — Sókrates trúði á æðri máttarvöld og æðri sannindi en þau, sem menn þekkja. Þess vegna á efi Sókratesar um þekkingu sína ekkert skylt við

sjónarmið efasemdamannsins, sem efast um allt. Sókrates trúði því einnig, að hin æðri máttarvöld gætu á ýmsan hátt komið boðum sínum til mannanna. Sjálfur taldi hann sig hafa reynslu fyrir slíku í draumum sínum og dulheyrnum. Og hann efast ekki um, að innblástur skáldsins, hin andlega sýn spámannsins og „trans" völvunnar í helgidómi Apollos væri af sama toga spunninn. Á hinn bóginn leyfði rökhyggja hans ekki, að hann tæki goðsvarið trúanlegt að órannsökuðu máli. Hann varð að ganga úr skugga um það, hvort ekki væri að finna sér vitrari menn í Aþenu, sem um þessar mundir var háborg heimsmenningarinnar. — Og Sókrates lagði af stað út á stræti og torg borgarinnar til að leita þeirra. Hann hélt fyrst á fund þess, sem fjöldinn dáði — hins fræga stjórnmála- og valdamanns. Og Sókrates komst að raun um, að stjórnmálamaðurinn var vitur — að sjálfs sín dómi og margra annarra, — en vissi í raun og veru ekki neitt.

Og þannig gekk Sókrates manna á milli, frá stjórnmálamönnum til skálda og frá skáldum til iðnaðarmanna, en alls staðar rak hann sig á það sama: Mennirnir héldu sig vitra, en áttu

þó ekki hina sönnu þekkingu. Og að lokum þóttist Sókrates skilja, hvað guðinn í Delfi hafði átt við: Menn þekkja ekki takmark mannlegrar þekkingar, hann hafði skilið vanmátt skynseminnar gagnvart hinu yfirskilvitlega og vissi, að hann vissi ekki neitt! Þess vegna var hann vitrastur manna! En þessi takmörk mannsins voru að dómi Sókratesar ekki alger og endanleg. Maðurinn var ekki vonlaus. Ljós hinnar sönnu þekkingar bjó í djúpum hverrar sálar, og maðurinn átti í vændum að komast með auknum þroska út úr andlegu myrkri sínu. Fyrst varð þó maðurinn að skilja, að hann væri algerlega fáfróður án hinnar andlegu sýnar, sem er lokatakmark heimspekingsins. Og Sókrates skildist um leið, að hér væri honum af æðri máttarvöldum ætlað verk að vinna, — fá menn til að skilja fáfræði sína og leiða þá síðan frá myrkri til ljóss. Um þessa köllun sína lætur Plató Sókrates síðar farast orð á þessa leið: Meðan ég dreg andann og hef mátt til, mun ég ekki hætta að iðka heimspeki, ekki hætta að áminna yður og skýra frá hinu sanna, hverjum sem ég mæti, og segja eins og mér er tamt: Kæri vinur, þú ert borgari í Aþenu, mjög stórri borg og frægri fyrir

vitsmuni og mátt andans. Fyrirverðurðu þig ekki fyrir að sækjast svo ákaft eftir fé, frægð og heiðursmerkjum? Viltu ekki leita andans og sannleikans og hugsa um að fullkomna sál þína?

Til að fylgja þessari köllun sinni sagði Sókrates skilið við allt. Hann leitaði sér ekki frama með afskiptum af stjórnmálum, hann safnaði ekki fé, og eigur hans gengu til þurrðar, unz hann varð örsnauður maður. Hann stundaði ekkert borgaralegt starf. En hvarvetna þar, sem menn komu saman á strætum eða markaðstorgum, í leikskálum eða súlnagöngum miðborgarinnar, var Sókratesar von. Hann gaf sig á tal við hvern sem var, menn og konur, og í Aþenu þeirra tíma var mikið rætt og persónukynni náin. Þar voru hvorki blöð, útvarp né sími, en fólkið sjálft var farvegur allra tíðinda, hugmynda og skoðana. Samræðulist og persónuleg áhrif skiptu því öllu máli. Og Sókrates varð að taka þátt í viðræðum um fjarskyldustu efni: stjórnmál, skáldskap, húshald, ást, listir, stríð, vísindi, hjónaband, iðnað, vináttu og eilífðarmálin. En framar öllu öðru bryddi hann þó upp á viðfangsefnum og spurn-

ingum, sem fengu menn til að nema staðar og hugsa um tilgang lífs síns og hin sönnu verðmæti þess. „Hvað er sannleikur?“ spurði hann. „Hvað er réttlæti?“ „Hvað er dyggð?“ „Hvað er hugrekki?“ o. s. frv. Tilgangur Sókratesar með þessum viðræðum og hinum mörgu spurningum sínum var að kenna mönnum að hugsa rétt. Til þess notaði hann ákveðna aðferð, sem við hann er kennd. Hún einkenndist einkum af 5 atriðum:

1) Sókrates skrifaði aldrei neitt sjálfur og flutti yfirleitt heldur ekki ræður, þar sem hann taldi þær ekki ná þeim tilgangi sínum að brjóta málefni til mergjar. Ræðumenn geta látið móðan mása, án þess að hægt sé fyrir áheyrendur að láta þá nema staðar við einstök atriði og rekja þau til rótar. En sé það gert, verða ræðumennirnir, að áliti Sókratesar, oft líkastir glymjandi málmpottum, sem þagna um leið og hönd er lögð á þá. Sókrates vildi hjálpa mönnum til að komast til botns í hverju máli, og það var aðeins hægt með samræðum, réttum spurningum, sem leiddu að lokum til hins rétta svars.

2) Annað einkenni á aðferð Sókratesar var, að hann lézt jafnan vita minna en sá, sem hann

ræddi við. Á þennan hátt fékk hann menn til að varpa fram skoðunum sínum og staðhæfingum. — Venjulega tileinka menn sér það, sem þeir heyra, án þess að brjóta málið verulega til mergjar og rannsaka það. Sumt það, sem mönnum dettur í hug af hendingu, gera þeir að bjargföstum skoðunum án þess að treysta hugmyndir sínar fyrst í eldraun veruleikans. Af þessum sökum setti Sókrates skoðanir manna og fullyrðingar, eftir að hann var búinn að draga þær fram í dagsljósið, undir stranga prófraun. Fór þá oft svo, að menn urðu að taka fullyrðingar sínar aftur og leita sér haldbetri skoðana, og einmitt það var tilgangurinn.

3) Hugur manna er venjulega fullur af nöfnum á alls konar stefnum, hugmyndum og fyrirbærum, án þess að nokkur verulegur skilningur standi að baki þessara nafna. Auk þess er algengt, að menn leggi mismunandi merkingu í sama orðið. Menn heyja oft langar og ákafar deilur um eitthvert málefni, en sjá loks, að deilan byggist ekki á öðru en því, að þeir höfðu í upphafi lagt hvor sína merkingu í orðið eða hugtakið, sem deilt var um. Til að fyrirbyggja þetta krafðist Sókrates skilgreiningar á

hugtakinu sjálfu með spurningum eins og: „Hvað er vit?“ „Hvað er fegurð?“ „Hvað er heiðarleiki?“ „Hvað er göfgi?“

4) Eftir að skilgreining var fengin, var reynt, hvort hún væri í samræmi við almenna reynslu og almenna notkun orðsins.

5) Og að lokum var kannað, hvað af skilgreiningunni mundi leiða.

Þannig reyndi Sókrates staðhæfingar manna og varpaði fyrir borð því, sem rangt reyndist, en hélt áfram, þar til niðurstaða og viðunandi skilgreining var fengin. En Sókrates gerði meira en afhjúpa fáfræði manna og þokulega hugsun, sem ekki stóðst gagnrýni. Hann byggði einnig upp. Hann hjálpaði mönnum til að skapa nýjar og þroskaðri hugmyndir og skoðanir og fyllti þá um leið sköpunargleði og ákafa þess manns, sem nemur ný lönd. Alkibiades, sem var undarlegt sambland af miklum gáfum og litlu siðgæði, segir um Sókrates:

„Ég hef hlustað á Perikles og aðra mikla ræðuskörunga, en þeir hrifu mig aldrei eða vöktu hjá mér tilfinningu um smæð mína. En Sókrates hefur oftlega haft slík áhrif á mig, að mér hefur fundizt ég naumast geta haldið áfram að lifa þessu lífi, sem ég hef lifað, og ef

ég ekki lokaði eyrum mínum fyrir orðum hans, mundi ég sitja við fótskör hans fram á elliár, því að hann knýr mig til að viðurkenna, að ég eigi ekki að breyta eins og ég geri, — vanrækja þarfir sálar minnar og fást við stjórnmál.“

En eins og ríka ungmennið dáðist Alkibiades að kenningunni, en sneri burt og breytti ekki eftir henni.

## *Kenningar Sókratesar*

Eins og fyrr segir, trúðu menn á dögum Sókratesar ekki almennt á ódauðleika sálarinnar eða sjálfstæða tilveru hennar. Þegar hinn hugumstóri og glæsilegi bardagamaður í kvæðum Hómers féll á vígvellinum, yfirgaf sálin hann eins og ömurlegur skuggi hins líkamlega og jarðneska glæsileika og hvarf eins og vofa inn í ríki gleymsku og þagnar. Aðrir trúðu því, að sálin væri aðeins hljómur af strengjum líffæranna.

Hinar fornu menningarþjóðir austursins höfðu aftur á móti þá trú, að sál mannsins lifði líkamsdauðann, lifði sjálfstæðu lífi og væri gædd vitsmunum, jafnvel meiri en birzt gætu í skorðum þeirra líffæra, sem andinn hefði enn skapað sér í heimi efnisins. Orfeusartrú flutti

Grikkjum þennan boðskap, og grískir heimspekingar, eins og Pyþagóras og Herakleitos, kenndu einnig, að sál mannsins væri eilíf. Þessar kenningar tileinkar Sókrates sér, og á grundvelli þeirra mótar hann og gefur svip sinn því hugtaki, sem Vesturlandaþjóðir hafa síðan í hálft þriðja árþúsund átt við með orðinu sál. Sókrates gefur hinu gamla austurlenzka hugtaki rýmri merkingu með því að tengja skynjun og hvatir, sem eiga rót sína að rekja til líkamans, hinum ódauðlegu eiginleikum sálarinnar: hinum sönnu vitsmunum.

Hið nýja hugtak Sókratesar um sálina felur í sér samruna hins dauðlega og hins ódauðlega. En hinir dauðlegu þættir sálarinnar, skynjun og skynsemi, sem tengd er og háð líkamanum, skoða Sókrates og Plató þó aðeins sem stundarfyrirbrigði, sem hverfur, þegar sálin hefur náð fullkomnun sinni. Þannig er raunar munurinn á hinu gamla hugtaki austursins og Orfeusartrúar og hugtaki Sókratesar og Platós eingöngu á yfirborðinu, en nær ekki til hins innsta eðlis sálarinnar. Hinir æðri og ódauðlegu eðlisþættir sálarinnar tvinnast aðeins hinni lægri og stundlegu náttúru, meðan sálin

er í fjötrum, háð endurfæðingu og lifir í útlegð frá ríki sínu. — Þannig er hugtakið sál, sem verið hefur í árþúsundir hyrningarsteinn vestrænnar menningar, rakið til Sókratesar.

Hin kenningin, sem Sókrates var frægastur fyrir er sú, að dyggðin sé þekking og þekkingin dyggð. Þessa kenningu Sókratesar um, að hið illa væri vanþekking og yrði sigrað með þekkingu, hafa margir kallað augljósa vanþekkingu á mannlegu eðli. Aðrir láta sér nægja að tala um bjartsýni Sókratesar á mannlega náttúru, en þeir meina þó hið sama, — að þessi kenning sé villa: — Þekkjum við ekki öll mýmörg dæmi þess, að menn, sem aflað hafa sér mikillar þekkingar og eru sagðir gáfaðir, breyta engu betur en hinir „fáfróðu“? Þekkjum við ekki doktora í læknisfræði, sem vita gjörla um hin skaðlegu áhrif áfengis, en gerast þó ofdrykkjumenn? Þekkjum við ekki lögfræðinga, sem afla sér tekna með því að brjóta lög og rétt? Og þekkjum við ekki presta, sem hrasa auðveldlega á vegi siðferðisins? Er af þessum dæmum ekki augljóst, að hér hafi Sókratesi orðið á í messunni? Er yfirleitt nokkurt samband milli þekkingar og breytni? Lít-

um í kringum okkur, og við munum finna gnótt „fáfróðra“ manna, sem betur breyta en margir, sem þekkingu hafa.

Þessi skoðun Sókratesar, að dyggðin sé þekking, virðist svo augljóslega röng, að það vekur grunsemdir. — Hvernig stendur á því, að sá, sem véfréttin í Delfi kallaði vitrastan allra manna, skyldi ekki sjá þetta, sem við sjáum svo ljóslega, — þetta, að þó að andinn sé reiðubúinn, þá er holdið veikt? Hvernig þorði Sókrates, sem á Agóru átti í látlausum orðasennum við hina frægustu menn aldarinnar á blómaskeiði hellenskrar menningar, að bera fram svo auðhrakta skoðun? Hvers vegna gerir sjálfur Aristóteles, sem gagnrýnir svo skarplega alla hellenska heimspeki fyrir hans dag, enga athugasemd við þessa skoðun? Hér eins og víða annars staðar hættir nútímamönnum við að dæma hina fornu heimspeki ranglega vegna misskilnings, sem stafar af grunnfærni athafnasamra kynslóða, sem eru hættar að hafa tíma til að hugsa.

„Þekktu sjálfan þig“ er kjarninn í boðskap Sókratesar. En hvernig er hægt að öðlast slíka þekkingu? Margur kann að halda, að þekkingu sé hægt að finna í bókum og ræðum viturra

manna. Á þann hátt er að vísu hægt að læra boðorð um, að menn megi t. d. ekki stela, að menn eigi að elska náunga sinn og að rangt sé að valda þjáningu. — En allt, sem þannig er lært af bókum eða af viðræðum, þarf ekki að vera annað en minni. Okkar kynslóð kann að halda, að þetta minni sé sama og sönn þekking, — sjálfsþekking. En Sókrates og margir aðrir fornir heimspekingar álitu, að þessi skoðun væri of grunnfær til að ræða hana. Það mun ástæðan fyrir þögn Aristótelesar. Sókrates hélt, að sönn þekking væri annað og meira en safnhaugur minnisins. Í hans augum var sönn þekking það, að hið innra eðli mannsins vaknaði og yxi fram sem veruleiki í lífi hans og breytni. Ef því einhver breytir illa á einhverju sviði, þá er það vegna þess, að sá eðlisþáttur hans er formyrkvaður, og þessa formyrkvun kallar Sókrates fáfræði, vegna þess að „frummynd" hins sanna og góða uppljómar þá ekki sál mannsins. Við skulum taka dæmi:

Prófessor í lögum hefur lært utan að margar og þykkar bækur um, hvað sé réttlæti. Réttlæti, segir Sókrates, er einn af hinum innri eðlisþáttum sálarinnar. Gerum nú ráð fyrir, að einmitt þessi eðlisþáttur lagaprófessorsins sé for-

myrkvaður. Hefur þessi maður þá til að bera sanna þekkingu á réttlætinu? Já, segja þeir, sem halda, að þekking sé sama og minni. Nei, segir Sókrates. Þessi maður mundi vera fáfróður um réttlæti. Vegna þess að þessi eðlisþáttur sálarinnar er formyrkvaður, getur öll hin mikla bókstafsþekking hans ekki komið í veg fyrir tilhneigingu hans til að vera ranglátur, ef hann hefur einhvern hagnað af að víkja frá réttu máli. Ef þessi prófessor hefur hins vegar sanna þekkingu á réttlæti, þá er það vegna þess, að þessi eðlisþáttur hefur vaxið fram í lífi hans og starfi. Ef svo er, þá getur hann ekki hallað réttu máli, vegna þess að réttlætið er eðli hans. Þess vegna er hin sanna þekking hans dyggð og dyggðin þekking.

Prófessor í guðfræði hefur lesið og lært allar ritningargreinar kristindómsins um góðvild og mannkærleika. Góðvild, að áliti Sókratesar, er einn af eðlisþáttum sálarinnar. Hugsanlegt væri þrátt fyrir allt, að einmitt þessi eðlisþáttur guðfræðiprófessorsins væri formyrkvaður. Hefur þessi maður þá til að bera þekkingu á mannkærleikanum? Já, segja þeir, sem halda, að sönn þekking sé aðeins minni. Nei, mundi Sókrates svara. Þessi maður væri fáfróður. —

Vegna þess að þessi eðlisþáttur hans er formyrkvaður, getur öll hin mikla bókstafsþekking hans ekki komið í veg fyrir tilhneigingu hans til þess að vera drambsamur, viðskotaillur eða sérgóður. Ef þessi guðfræðiprófessor hefur aftur á móti sanna þekkingu á kærleikanum, þá er það vegna þess, að þessi eðlisþáttur hans hefur vaxið fram í lífi hans og starfi. Og ef svo er, hlýtur allt dramb og öll síngirni að víkja, vegna þess að góðvildin er eðli hans. Þess vegna er hin sanna þekking hans dyggð og dyggðin þekking.

Listskýrandi hefur lært utan að margar og þykkar bækur um sögu, þróun og tækni listarinnar. Fegurðin, segir Sókrates, er einn af eðlisþáttum sálarinnar. Gerum nú ráð fyrir, að einmitt þessi eðlisþáttur listfræðingsins sé formyrkvaður. Hefur þá þessi maður til að bera þekkingu á fegurð listarinnar? Já, segja þeir, sem halda, að þekkingin sé eingöngu minni. Sókrates aftur á móti mundi hafa talið slíkan mann fáfróðan um fegurð. Vegna þess að þessi eðlisþáttur hans er formyrkvaður, getur öll hin mikla bókstafsþekking hans ekki komið í veg fyrir þá tilhneigingu hans að vera sífellt að benda mönnum á fegurð í ljótleikanum og van-

skapnaðinum og kasta rýrð á fögur og sönn listaverk. Ef þessi listfræðingur hefur aftur á móti sanna þekkingu á fegurð, þá er það vegna þess, að þessi eðlisþáttur hefur vaxið fram í vitund hans, í lífi hans og starfi. Og ef svo er, getur hann ekki séð fegurð í vanskapnaðinum og vanskapnað í fegurðinni, vegna þess að fegurðarskynið er eðli hans. Þess vegna er hin sanna þekking hans dyggð og dyggðin þekking.

Þetta voru aðeins dæmi úr hversdagslífi okkar tekin til skýringar. — Og ef við nú sjáum fleiri slík dæmi í kringum okkur, menn, sem taldir eru gáfaðir og margfróðir, en breyta samt illa, þá er það vegna þess, að þekking þeirra er ekki sönn þekking. Hún er aðeins safnhaugur minnisins, sem á sínum tíma kann að eyðast og hverfa og skilur þá manninn eftir eins og hann raunverulega var: fáfróðan og án sjálfsþekkingar.

Sókrates hélt því fram, að hægt væri að kenna dyggð. En hún verður ekki kennd með því einu að auka safnhrúgu minnisins, heldur með því að hjálpa mönnum til að vekja sitt innra og sanna eðli: góðvildina, sannleikann og réttlætið.

Þannig kenndi Sókrates.